# FÓSTBRÆDRA-SAGA

edr

Sagan af Þorgeiri Havarssyni ok Þormódi Bersasyni Kolbrúnarskalldi.

---

Nú útgengin á prent eptir handritum.





Kaupmannahöfn.
Prentut hiá Thiele at forlagi hans.
1822.


Jón Thorkelsson
rektor

# Formáli.

Þessi Fóstbrædrasaga *) er prentut eptir þeirri afskrift sögunnar, er finnst í Suhms safni, í hinni konúngligu miklu kókhlödu. Enn sú afskrift er tekin úr handritum, er tilheyra fornfrædasafni Arna Magnússonar: hún er skrifut eptir No. 141 í arkarformi, ok samanborin vid No. 132 ok No. 142 í arkarformi ok No. 566. A. B. C. í 4blf. No. 132 er skinnbók.

A No. 141 stód med hendi Arna Magnússonar:

"Þesse Fóstbrædra Saga er teken úr Volumine 9 þeirra bóka er eg keypte epter Etatzraad Meyer daudann." (Descriptionem hujus Exemplaris vide in consignatione illorum librorum.)

*) Um Fóstbrædrasögu má lesa í P. E. Müllers Sagabibliotheki, 1 Bd. bl. 153 - 159. Deutsch. Uebers. bl. 113 - 117.

No. 142.

Efter Membrana Regia in 4to, stód aptan á Bokenne med Hendi Asgeirs Jonssonar: úr No. 12 fra Sal. Thormod Torfuesens Enke 1720.

No. 566 in 4to.

A.

Ex Membrana in 4to Biblioth. Regiæ.

B.

Ex Membrana mea in folio.

C.

Er ritud 1705 eftir bók í folio fra Sysslumannenum Olafe Einarssyne.

Gud drottinn Jesus Christus sá til Þess Þörf vora allra Nordmanna at velia oss slíkan formælanda, sem sva kostgiæfdi med mikilli gódfýsi vara naudsyn sem Þessi skínandi geisli ok lýsandi ljóskér hinn heilagi Olafr kóngr Haralldsson, hverr ei at eins elskadi sinn undergéfinn lýd í Noregi helldr ok iafnvel Þá, sem á Íslandi bygdu, Þá sem sóttu hans tign ok virdíng, prýdandi hvern eptir Því med veralldar virdíngu, sem hann fann tilfelldan, suma med fégiöfum enn suma med nafnbótum. Gáfust ok Þær raunir, at Þeir fengu mesta ást ok elsku af Olafi kóngi, sem gud elskudu framast.

Olafr kóngr unni mikit hirdmönnum sínum, ok Þótti sér í Því miök misbodit, ef Þeim var med öfund misÞýrmt, ok Þeim öllum framast, er hönum Þótti mestr madr í. Þyckir af Því tilheyriligt at setia hér nockurn Þátt af hirdmönnum hans tveimr, Þorgeiri

Hávarssyni ok þormódi Bessasyni, er leingi vóru med hönum í mörgum mannraunum, Þó at Þeirra sé ei iafnan vidgétit í siálfri Olafs sögu. Má af slíkum merkia giæsku ok giptu Olafs kóngs, at hann veitti Þat athalld sva miklum óeyrdarmönnum, sem Þeir vóru fóstbrædur, at Þeir elskudu kónginn yfir alla menn framm. Urdu Þeim ok sídan sín verk öll at frama ok frægd, Þau sem Þeir unnu í heidr vid kónginn, ok sýndu af sér ágiæta vörn, dád ok drengskap, ádr Þeir endadu sitt líf ok erfidi Þeirrar vestu veralldar [1]).

## I.

## Uppruni þeirra Þorgeirs ok Þormódar.

A dögum hins heilaga Olafs kóngs vóru margir miklir höfdíngiar undir hans kóngsríki, ei at eins í Noregi, helldr í öllum löndum Þeim, er hans kóngsdómr stód yfir, ok vóru Þeir mest [2]) virdir af gudi, er kónginum líkadi best.

1) vantar í öllum ödrum.

2) verdir. C.

I Þenna tíma var höfdingi mikill [1]) á Íslandi í Ísafirdi, sá er Vermundr hét. Hann var Þorgrímsson [2]) bródir Vígastyrs. Vermundr hafdi bústad í Vatnsfirdi, hann var vitr madr ok vinsæll [3]) (hvatr ok hardrádr). Hann hafdi Þá konu, er Þorbiörg hét, hún var köllud Þorbiörg hin digra, dóttir [4]) Kiartans Olafssonar, hun var vitr kona ok stórlynd, rík ok stórrád [5]). Avallt er Vermundr var eigi heima, Þá réd hún fyrir héradi ok fyrir mönnum, ok Þótti hverium manni sínu rádi vel komit, Þó at hún rédi fyrir [6]).

1) ok ágiætr. öll.
2) bródur. 132. B.
3) vantar í 566.
4) Olafs Þá. 132. 566. 142.
5) ok atkvædamikil. 142.
6) Þat bar at einu sinni, Þá er Vermundr var eigi heima, at Grettir Asmundarson kom i Isafiörd. Þá var hann sekr, enn hvar, sem hann kom, hafdi hann Þat af hverium, sem hann kalladi, ok Þó at Þat væri kallat géfit, er laust var látit, Þá vóru Þær giafir á Þann veg, at Þeir mundi eigi laust láta, ef Þeim Þætti ei tröll standa fiyrir dyrum. ok nú sömnudu bændr lidi, ok tóku Gretti Asmundarson ok dæmdu hann til dráps, ok reistu gálga, ok ætludu at heingia hann; ok, er Þorbiörg frá Þetta, fór hún med húskarla sína til Þessa mannfundar, kom hún

[1]) Hávarr hét madr, hann var Kleppsson, hann bió at Jökulskélldu. Hávarr var ættadr sunnan af [2]) Akranesi, ok hafdi flýit Þadan fyrir vígasakir, hann var hávadamadr mikill ok ódæll. Hann átti þá konu, er Þorelfr hét, hún var Breidfirzk at ætt, hún

þar, sva at gálgi var reistr ok snara vidfest ok Grettir þar til leiddr, ok stód þat eitt fyrir hans lífláti, er sén var för Þorbiargar, enn, er hun kom, spurdi hún, hvat þeir ætludust fyrir? þeir sögdu sína fyrirætlan. Þorbiörg mællti: órádligt synist mér, at þér drepit Gretti, því at hann er ættstórr ok mikils verdr sakir afls ok margra íþrótta, þó at hann sé ei at sumu giæfumadr; mun frændum hans þyckia mikill skadi eptir hann, þó at hann sé (vid marga menn. bæta 132. B. C. vid.) ódæll. Þeir svara: ólífismadr synist ofs hann vera, því at hann er sekr skógarmadr ok sannr ránsmadr. Þorbiörg mællti: ei mun hann nú at sinni af lífi tekinn, ef ek má ráda. Þeir svara: hafa muntu ríki til þessa, hvört sem þat er rétt eda rángt. Þá bad Þorbiörg leysa Gretti, ok gaf hönum líf, ok bad hann fara, hvert er hann villdi. Þá kvad Grettir vísu:

Munda ek siálfr í snöru egnda
haulfti brátt böfdi stínga,
ef Þorbiörg þessu skálldi,
hún er allsnotr, ecki byrgi.

Af slíku má merka, hvílíkr skörungr hun var. bæta öll vid.

1) Hávardr. 142

2) Alftanesi. öll.

var dóttir [1]) Alfs i Dölum, göfugs manns ok ágiæts. Hávarr ok þorelfr áttu son, er þorgeirr hét, hann var brádgérr, madr mikill vexti, sterkr ok ódæll ok kappsfullr, hann nam á únga alldri at hlífa sér med skilldi, enn vega med [2]) sverdi.

Bersi hét madr, er bió í Ísafirdi [3]), hann átti Þá konu er þorgérdr hét, son Þeirra hét þormódr, hann var á únga alldri, hvatr madr ok hugprúdr, medalmadr vexti, svartr á hár ok hrockinhærdr.

Í Þenna tíma bió á Reykiahólum á Reykianesi þórgils Arason, hann var höfdíngi mikill, vitr ok vinsæll, ríkr ok rádvandr. Illhugi hét bródir hans, hann var hirdmadr ens heilaga Olafs kóngs, hann var farmadr mikill ok var annan vetr med Olafi kóngi, enn annan vetr á Reykiahólum [4]) (hann hafdi út kirkiuvid Þann ok skálavid, er Þar var). þeir brædr voru synir

1) Olafs. 566. B.
2) vopnum. öll.
3) á bæ Þeim, er á Dyrdilmyri (Tirdilmyri. 142) heitir. bæta öll vid.
4) ( ) vantar i 142.

Ara [1]) Márssonar [2]) (Atlasonar) Ulfsonar ens Skiálga, er nam Reykianes, Högnasonar ens hvíta, Útryggssonar, Óblaudssonar, Hiörleifssonar [3]) kóngs. þorgérdr hét módir Þeirra, hún var dóttir Alfs í Dölum [4]) (Högnasonar ens hvíta Ótryggssonar Óblaudssonar). Módir Alfs var [5]) þorhilldr dóttur þorsteins hins Rauda [6]) Óleifssonar ens hvíta [7]) (Ótryggssonar, Óblaudssonar) Ingialldssonar, Fródasonar. Módir Ingiallds var þóra dóttir Sigurdar Orms í auga. Módir Sigurdar var Aslaug dóttir Sigurdar Fafnisbana.

þorgeirr Hávardsson var systrúngr þórgils Arasonar. þorgeirr ok þormódr uxu upp í Ísafirdi, ok var vingott med Þeim snemma, Því at Þeir vóru miök skaplíkir. Snemmindis sagdi Þeim sva hugr, sem sídarr bar raun á, at Þeir mundu vapndaudir verda, Því at Þeir vóru rádnir til at láta sinn hlut

1) Olafssonar. 132. B. C.
2) vantar i öllum.
3) Konans. 132. Konuns. B. Konvids. C.
4) vantar i 132. B. C.
5) Hildr. 132. B. C.
6) Olafssonar. C.
7) vantar í 132. B. C.

hvörgi undir liggia vid hvöria menn, sem Þeir áttu málum at skipta, hugdu meir at frægd ok frama Þessa heims enn dyrd annars heims fagnadar. Því tóku Þeir Þat rád med fastmælum, at hvörr skylldi annars hefna, er lengr lifdi. Enn Þó at Þá væri menn kristnir kalladir, Þá var Þó í Þann tíma úng kristni ok miök vangér, sva at margir gneistar heidninnar villu vóru Þá enn í veniu margra manna. Í fyrnsku hafdi sú sidvenia verit [1]) hardfeingra manna Þeirra, er Þat lögmál gérdu sín á medal, at sá skylldi annars hefna, er lengr lifdi; Þá skylldu Þeir gánga undir III iardarmenn, ok var Þat eidr Þeirra. Sá leikr Þeirra var á Þá lund, at rista skylldi upp Þriár torfur lángar, Þeirra endar skylldu allir fastir vera í iördu, enn heimta upp lyckiurnar, sva at madr mætti gánga Þar undir. Þann leik frömdu Þeir Þorgeirr ok Þormódr [2]). Þormódr var Þeirra nockru ellri, enn Þó var Þorgeirr sterkari. Uppgángr Þeirra giördist brátt mikill, fóru Þeir vída um hérat, ok vóru

1) frægra. 132. B. C.
2) i sinum fastmælum. bæta öll vid.

ecki miök vinsælir, töldu margir Þá ecki vera iafnadarmenn, höfdu Þeir [1]) hráskinn hiá fedrum sínum [2]) virdu sva margir, at Þeir hélldu Þá til Þessarar [3]) óspektar. Főru Þeir menn, er varhluta Þóttust vordnir fyrir Þeim, á fund Vermundar, ok bádu hann afkoma Þessu vandrædi. Vermundr baud Hávari ok Bersa á sinn fund ok sagdi Þeim, at mönnum [4]) líkadi lítt vid sonu Þeirra; ertu Hávarr, segir hann, utanhérads madr ok hefir setzt hér nidr at einkis mans lofi, höfum vér ei amast vid bygd Þína hér til, enn nú sýnist mönnum standa af Þorgeiri syni Þínum nockr [5]) hrodi ok stormr. Vilium vér nú, at Þú breytir bústad Þínum, ok færir í brott bygd Þína úr Ísafirdi, enn Bersa ok son hans munum vér Því ei á brott reka, at Þeir [6]) eru hér héradsmenn, ok væntum vér, at minni stormr muni standa af Þormódi, ef Þeir skiliast. Hávarr svarar: ráda muntu

1) halld ok traust. 132. B. C.
2) sem von var at. 132. B. C.
3) til rángs. 132. B. C. ránginda. 142.
4) misÞockadist. 142.
5) órói. 132. B. C.
6) eiga hér kyn. 132. 142. 566.

Því, at vér munum rádast í burt úr Ísafirdi med fé voru, enn ei veit ek, nema Þorgeirr vili ráda sínu vistafari. Nú eptir Þessa [1]) vidrædu færdi Hávarr bygd sína sudr til Borgarfiardar, ok bygdi Þar, sem nú eru kalladir [2]) Hávardsstadir.

Þorgeirr var Þá ýmist med fedr sínum edr vestr í Ísafirdi med Þormódi, ok [3]) vóru mörgum andvaragéstir, Þar sem Þeir komu [4]), laungum var hann á Reykiahólum med Þórgilsi frænda sínum [5]) (ok hafdi af hönum gott yfirlæti). Mikit vinfengi var med Þeim [6]) Þórgilsi Arasyni, ok héllzt Þat medan Þeir lifdu bádir.

## II.

## Jódurr drap Hávar.

Jódur hét madr, er bió at Skeliabrecku, [7]) (hann var Klængsson). Jódurr var garpr

1) rádagérd. öll.
2) Hávarstoptir. öll.
3) var — andvaragéstr. öll.
4) Þó at hann væri úngr. öll.
5) vantar í 142.
6) Ara Þérgilssyni. öll.
7) vantar í öllum.

mikill [1]) ok óiafnadarmadr mikill, ríkr [2]) ok stórrádr, vígamadr mikill, ok bætti sialdan menn, Þó at hann vægi. [3]) Jódurr fór um vetrinn út á Akranes ok húskarlar hans med hönum at miölkaupum. I Þeirri för kom hann til Hávars, ok bad, at hann skylldi liá hönum hest út á nesit. Hávarr sagdist mundu liá hönum hestinn, ok vil ek, segir hann, at Þú látir hér eftir hestinn, er Þú ferr aptr [4]). Jódurr kvad sva vera skylldu. Hann fór út á nesit ok keypti Þar miöl, sem hann hafdi ádr ætlat, ok fór heimleidis [5]), ok er hann fór med Grunnafirdi nær bæ Hávars, Þá ræddu förunautir hans um vid hann, at Þeir mundi eptirláta hestinn. Jódurr segir: ecki nenni ek nú at dveliast, ok mun ek nú hafa hestinn heim undir klifiunum ok senda hann Þegar aptr, er ek hefi haft í mína naudsyn. Þeir svara: giöra máttu sva, ef Þú vill, enn ecki hefdi Hávari

1) ok höfdíngi. öll.
2) í héradinu 132. 142. B. C.
3) Þat bar at einn vetr. öll.
4) ok hefir Þú ei lengra. bæta öll vid.
5) Þá er hann hafdi Þat annast, er hönum bar naudsyn til. bæta öll vid.

ávallt líkat, at af Því væri brugdit, er hann villdi vera láta. Ecki mun nú fyrir Þat [1]) géfit verda, sagdi Jódurr. Hávarr sá ferd Þeirra [2]), ok fór til fundar vid Þá [3]), ok mællti: nú munu Þér láta eptir hestinn. Jódurr svarar: Þú munt vilia liá mér heim hestinn. [4]) (Hávarr segir: ei mun nú hestrinn fara lengra. Jódurr svarar: Þó munu vér nú hafa hann, Þó at Þú vilir ei.) Hávarr svarar: vera má, at sva sé. Hann hleypr at hestinum ok hió ofan klifiarnar, ok tók í tauma hestsins, ok sneri hönum á leid. Jódurr hafdi mikit krókaspiót í hendi. hann snarar Þá at Hávari, ok leggr spióti á hönum midium, af Því sári lét Hávarr líf sitt. Jódurr tók hestinn, ok hafdi med sér, ok fór leid sína til Þess, er hann kom heim. Heimamönnum Hávards Þótti hönum seint heim verda, ok fóru at leita hans, ok fundu hann daudan, Þar sem hann hafdi veginn verit; Þeim Þótti Þau tídindi mikil vera ok mörgum ödrum.

1) giört. öll.
2) kénnir mennina. bæta öll vid.
3) heilsar Þeim. öll.
4) vantar í C.

III.

## Þorgeirr drap Jódur.

Þorgeirr Hávarsson var Þenna tíma vestr í Ísafirdi, enn víg Hávars spurdist vída um hérut, ok er Þorgeiri var sagt lát födr síns, Þá brá hönum ecki vid tídinda sögn Þessa, ecki rodnadi hann, Því at hönum rann ecki reidi í hörund, ecki bliknadi hann [1]), Því at hönum rann ei reidi í bein, helldr brá hann sér á öngvan veg vid Þessa tídinda sögn, Því ecki var hiarta hans, sem fóarn í fugli, ecki var Þat blódfullt, sva at Þat skylfi af hrædslu, helldr var Þat hert af enum hæsta höfudsmid [2]). Svá er sagt, at Þorgeirr væri lítill kvennamadr, taldi hann Þat vera svívirdíng síns krapts hokra at konum, sialldan hló hann [3]) (eingi var hann gapsmadr) óblídr (ok óhýr) hversdagliga vid alÞýdu, mikill var hann vexti ok drengilegr í ásiónu, rammr at afli. Þorgeirr átti exi [4]) breida stundarmikla sköfnúngs exi, sú

1) Því at hönum lagdi ecki heipt í bríóst, ecki blánadi hann. bæta öll vid.
2) í öllum hvatleik, bæta öll vid.
3) ( ) vantar í öllum.
4) mikla stundarbreida. 142.

öxi var snarpegg ok hvöss ok féck mörgum manni [1]) ærinn náttverd. Hann átti ok mikit [2]) spiót, Þat var med hördum oddi ok hvössum eggium, mikill falr ok digrt skapt. I Þenna tíma vóru hér á landi sverd ótíd mönnum til vopnaburdar. Nu er þorgeirr spurdi víg födr síns, Þá fór hann á Reykiahóla til þorgils Arasonar, ok sagdi hönum, at hann villdi fara sudr til Borgarfiardar at hitta módr sína ok bad, at hann skylldi fá hönum far yfir Breidafiörd. þórgils gérdi, sem hann bad. Nú fór hann sudr í Borgarfiörd, ok er ecki sagt frá náttstödum hans. Færdir vóru gódar ok snælaust í héradinu, vötnin lágu öll; ok er hann kom sudr yfir Hvítá, þá lagdi hann leid sína til Skeliabrecku [3]) (vedr var Þyckt ok hlætt, myrkt úti bædi fyrir vedrs sakir ok nætur. þorgeirr kom til Skeliabrecku) síd um aptan, ok er hann kom á bæinn, Þá vóru dyr aptrloknar ok menn nýkomnir í stofu frá elldi; liós brann í stofunni. þorgeirr drap á dyr.

1) exin. 132. B. C. exinnar verd. 142.
2) fiardspiót öll.
3) ( ) vantar i C.

Jódurr mællti: á dyr var drepit, gángi út nockr sveina. Þá sá út einn húskarl, ok sér mann fyrir dyrum standa med vopnum, ok spyrr, hverr han væri? hann svarar: Vígfúss heiti ek. Húskarl mællti: gack Þú inn, heimil [1]) er Þér gistíng. Þorgeirr mællti: ei Þigg ek at Þrælum gistíng, mæl Þú, at Jódurr gángi út. Hann geingr inn, enn Þorgeirr stendr úti. Jódurr spurdi, hverr kominn væri? húskarl svarar: ei veit ek, hverr hann er, ek ætli, hann viti ei siálfr. Jódurr mællti: hvört baud Þú hönum gistíng? húskarl svarar: baud ek hönum, ok villdi hann ecki Þiggia gistíngar bod at Þrælum, bad hann Þik útkoma. Jódurr tók spiót í hönd sér, ok setti hiálm á höfut sér, geingr út í dyrnar ok tveir húskarlar med hönum, sér mann úti standa, snýr út spiótinu ok setti spiótsoddinn í Þreskiölldinn, enn stód siálfr fyrir innan. Hann spyrr, hverr hinn homni madr væri? sá svarar: ek heiti Þorgeirr. Jódurr mællti: hverr Þorgeirr ertu? hann svarar: Havarsson er ek. Jódurr mællti: hvört er eyrindi Þitt híngat? Þor-

1) mun. öll.

geirr svarar: ei veit ek, at hveriu verdr, enn eptir vil ek leita, ef Þér vilit mér nockuru bæta víg Þat, er Þú vótt Hávar födr minn. Jódurr mællti: hefir Þú eigi spurt Þat, at ek hefir mörg víg vegit ok hef ek [1]) fá bætt? Þorgeirr svarar: ókunnigt er mér Þat, enn hvat sem Þat er, Þá kémr Þetta til mín at leita eptir Þessum vígsbótum, er mér er sva nær höggit. Jódurr svarar: ei væri allfiarri at minnast Þín í nockru, enn fyrir Því mun ek ei bæta Þér Þetta víg, at ödrum mun skylldt Þyckia, at ék bæta Þá önnr víg Þau, sem ék hefi vegit. [2]) (Þorgeirr svarar: Þér munut ráda, hvern Þér vilit minn géra, enn ek mun ráda Þyckiu minni.) Nú, er Þeir ræddust Þessi órd vid, Þá stód Þorgeirr [3]) ei allnær dyrum; hann hafdi spiót í hægri hendi ok sneri framm oddinum, enn öxi í hinni vinstri hendi. [4]) (Jódurr ok hans mönnum var dimt út at líta, Því at Þeir vóru frá liósi komnir, enn Þorgeirr

1) eingi öll.
2) ( ) vantar í 142.
3) ei vantar í 132. 566.
4) vantar í 142.

mátti nockru giörr siá Þat, er í dyrunum var.) Nú, er minstir vonir vóru, Þá lióp þorgeirr upp at dyrunum ok lagdi spiótinu á Jódur midium ok Þegar ígégnum hann sva hart, at hann féll inn í dyrnar í fáng fylgdarmönnum sínum. þorgeirr snýr í brott í náttmyrkrinu, enn húskarlar Jódurs [1]) starfa at hönum. Þa var þorgeirr XV vetra, er Þetta vig var, sem þormódr orti í erfidrápu þorgeirs.

Starf [2]) hófst upp Þá er arfa
audveitir [3]) ~~sik~~ [lét] daudan,
[4]) hástrennir var hlunna
[5]) haugsniallr, Klængs falla.
[6]) efnd tókst Hávards hefndar
[7]) hap stödst [hafstods], Þá er var módur [Módir],
[8]) hann hlaut happ at vinna
[9]) hvatr XV vetra.

1) stamba. 132. B.
2) þreifst. 132. 142. 566.
3) lét öll.
4) hestrennir. öll.
5) hugsniallr — falli. öll.
6) efnd tók. öll.
7) hafstods. 132. B. hafstods. C. — vid modi. 132. 566.
8) hann vard. öll.
9) hvetr ok. öll.

## IV.

## Þorgeirr hitti módur sína.

[1]) (Nú ferr þorgeirr um nóttina út fyrir Hafnarfiöll) ok nam ei fyrr stadar enn á Hávarsstödum. Hann drepr Þá á dyr ok er seint til hurdar geingit. þorelfr kvedr einn húskarl til út at gánga. Hann vaknar, ok [2]) hrífr í augnn ok mællti: ei veit ek, at naudsyn sé út at gánga, Þó at menn fari um nætur. þorelfr mællti: sá einn mun fara um nætur í miklu myrkri, at naudsyn mun á Þyckia. Ei veit ek Þat, segir húskarl. Haun reis Þó upp seint, ok geingr til dyranna, sér mann úti fyrir dyrunum ok heilsar hönum [3]) ecki, snýr enn til reckin sinnar, leggst nidr, ok breidir á sik [4]). þorgeirr geingr inn, lýkr aptr hurdum, snýr til stofn. þorelfr spyrr: hverr kom madr? hann svarar: Þat er bædi, at ek veit ei, hverr hann er, enda Þycki mér ei undir. þorelfr mællti: ófor-

1) ( ) vantar í öllum.
2) gnyr. öll.
3) vantar í 132. 566.
4) fötin.

vitinn madr ertu. Hún mællti vid gridkonu eina, rís Þú upp [1]) dóttir, ok gack til stofu ok vit, hverr madr sé. [2]) Hún reis upp, ok géck til stofu, [3]) lýkr upp hurdinni ok spurdi: hvört er nockr madr í stofunni? henni var svarat: er hér einnhverr madr. Hún spurdi, hverr hann væri? hann nefndist Þorgeirr. Hún lýkr aptr hurdinni, ok geingr í skála. Þorelfr spyrr: hverr var madr? hún svarar: Þat ætla ek, at kominn sé Þorgeirr sonr Þinn. Þorelfr rís Þá upp, [4]) ok kveikti liós, geingr til stofu, ok fagnar vel syni sínum, ok spyrr tídinda. Þorgeirr svarar: áverki nockr gerdist í kvölld at Skeliabrecku. Hún spurdi: hverir áttu hlut at Því? Þorgeirr svarar: ecki má ek Þat af mér bera, enn Jödurr vard fyrir áverkum. Hún svarar: lítill mann skadi, ok spurdi, hversu mikill áverki Þat væri? Þorgeirr svarar: Þat ætla ek, at ei muni Þurfa um at binda, Því at ek sá á spiót-

1) vantar í öllum.
2) at Þangat géck. öll.
3) hún kagar hiá gáttinni. 142.
4) ok klæddi sik. 142.

inu at [1]) ótrautt mundí hafa tekit i gégnum hann, Því at hann féll á bak aptr vid lagit í fadm fylgdarmönnum sínum. Þorelfr segir Þá med glödu brióst: óbernsligt bragd var Þat, ok nióttu heill handa, son minn, eda hví lögdu Þeir ecki eptir Þér fylgdarmenn Jódurs? Þorgeirr svarar: fengin var Þeim önnr [2]) athöfn [3]). Hún setti Þorgeiri náttverd, ok er hann var mettr, Þá mællti Þorelfr: Þat sýnist mér rád, at Þú leggist nidr, enn rísir upp ofanverda nótt, ok stíg á bak hesti [4]) skúndum feitum er vid eigum, ríd hönum vestr til Breidafiardar, húskarlar mínir skulu fara med Þér ok fylgia Þér, hvörsu lángt, er Þér líkar. Hér munu menn komu á morgun at leita Þín ok höfum vér ecki faung til at hallda Þik hér fyrir fiölmenni. Ísa mun skiótt leysa, ef Þeyrinn héllzt, ok er Þá verra at fara. Hefir Þú ok nú unnit Þat, er mest var naudsyn til. Berr Þér ok

1) vantar í öllum.

2) sysla. 142. verka efni. 132. 566.

3) enn brátt fal syn medr oss fyrir vedrs sakir. bæta öll. vid.

4) Þínum. 132. 566. selfeitum. 142.

þórgilsi frænda mínum ord til Þess [1]), at ek vil rádast Þángat vestr í átthaga mína. þorgeirr gérdi eptir Því, sem módir hans bad, lagdi Þá til svefns, ok reis upp [2]) snemma morgins, ok reid í brott, ok er ecki um hans ferdir gétit, fyrr enn hann kom vestr til [3]) (Breidafiardar, féck sér Þar skip ok fór á Því vestr til) Reykianess, sagdi Þar víg Jódurs, sýndist öllum mönnum, Þeim er Þessi tídindi heyrdu sögd, sá atburdr undarligr ordinn, at eitt úngmenni hafdi ordit at bana sva hardfengum héradshöfdíngia ok miklum kappa, sem Jódur var. Enn Þat var Þó eigi undarligt, Því at hinn hæsti höfutsmidr hafdi skapat ok géfit í bríóst þorgeiri sva óhrætt hiarta, at hann hræddist ecki, ok var hann í öllum mannraunum sem hit óarga dýr. Ok af Því allir lutir eru af gudi géfnir, Þá er allr öruggleikr af gudi gérr ok géfinn í bríóst [4]) hvötum mönnum,

1) at taka mér þar nockrn rádstafa vestr hiá sér, enn ek man selia iardir mínar þær, er ek á hér. bæta öll. vid.
2) ofanverda nótt. öll.
3) vantar i 142.
4) hraustum. 142. drengium. 132. 566.

ok med siálfrædi at hafa til Þess kraptinn, er Þeir vilia, [1]) (Því at Kristr hefir mennina skapat ok gért Þá sína tilæskíngar sonu enn ei præla), enn Því mun hann hverium giallda, er tilstundar. Þorgeirr hafdist Þá ýmist vid á Reykiahólum edr vestr í Ísafirdi [2]).

Um vorit eptir Þessi tídindi rédst Þorelfr á Reykianes vestr med allt sitt. Þat sama sumar var sætt á víg Þeirra Hávards ok Jódurs.

Þorgeirr var Þá laungum med Bersa. Þeir Þormódr fengu sér einn feriustut ok rédust til Þess skips [3]) VI menn adrir. Þeir létu reida yfir um sumarit [4]).

## V.

## Frá Þorgeiri ok Þormódi fóstbrædrum.

Madr er nefndr Ingólfr, er bió í Jökulsfiördum. Hann var kalladr Svidinn. Sá bær var kalladr á Svidinsstödum, er hann

1) vantar í 142.
2) med Bersa. 142.
3) VII. 132. 566. vantar í 142.
4) í ymsa stada, ok vóru mídlungi vinsælir. 132. 566.

bió. þórbrandr hét son hans, hann var garpr mikill, ódæll ok óvinsæll, ok bádir vóru Þeir frændur óiafuadarmenn miklir, tóku iafuan annara fé med kúgan eda ráni. þeir vóru Þíngmenn Vermundar, ok héllt hann miök hendi yfir Þeim fedgum. þeir gáfu hönum gódar giafir iafuan, ok var Þeim Því ecki skiótt hefudr sinn [1]) ósómi, Þann er Þeír gérdu mönnum, at eidr Vermundar stód fyrir.

Sigurfliód hét kona, hún var eckia ok bió í Jökulsfiördum. Hún var vitr ok vinsæl ok mikill gagusmunr mörgum. Fiördr einn var í millum bygda Þeirra Ingólfs, ok var henni í mörgum lutum stór vandrædi at Þeim.

þorgeirr ok þormódr gérdust til at fara nordr til stranda til fángs. Ok, er Þeir vóru búnir til farar, Þá gérdi á mótvidri [2]), ok gaf Þeim ei út úr Ísafirdi. Höfdu margir af Þeim mikil vandrædi. Ok er komit var at vetri, Þá rann á byrr, ok tóku til segls ok sigldu út eptir Ísafirdi gott vedr ok lítit. Ok,

1) óiafnadr. 142. ofsi. 132., 566.
2) er þeir komu í Jökulsfiörd. 142.

er Þeir höfdu siglt nockra stund, Þá tók vedrit at Þyckna ok Því næst at drífa, ok er Þeir komu út fyrir Jökulsfiörd, Þá kom vedr í móti Þeim bædi hvast ok kaldt med fiúki ok frosti, ok vissu Þeir ei, hvar Þeir fóru, gérdist Þá myrkt bædi af nótt ok af myrkri med fiúki. Snéru nú skipinu forvidris, ok fengu Þó stór áföll, urdu allir alvotir ok freri at Þeim klædin. Reyndu ránardætur dreingina ok budu Þeim sín fadmlög. Komu loks í einn fiörd, hélldu Þar inn eptir ok í, ok í fiardarbotninum vóru naust ok skip inni. Settu Þar skip sitt ok biuggu um, gánga á land ok leita bæar, ok finna loksins einn lítinn bæ; drepa á dyr, ok geingr Þar út madr ok heilsar Þeim, ok bidr Þá inngánga, er úti eru í illu vedri. Þeir gánga til stofu, Þeim var heilsat. Þá spyrr ein kona, hverr fyrir Þeim væri forrádamadr, er komnir væri? henni var sagt, at Þorgeirr ok Þormódr væri Þar komnir, edr hverr spyrr at Því? Þeim var svarat, at sú héti Sigrfliód, er atspurdi, ok hefi ek heyrt yckar gétit, enn ei hefi ek sét yckr fyrr; enn hvört hafi Þid verit meir vinsælir enn vedrsælir í dag?

Þeir svörudu: margir munu Þat kalla [1]) líkt, ok Þó skipta hvörir umtala. Sigrflióđ svarar: vera má, at sva sé. Nú býdr hún at taka vid klædum Þeirra, er Þá elldr uppkveiktr ok Þýd klædi Þeirra. Eptir Þat var Þeim feinginn náttverdr, ok Því næst til reckiu fylgt ok búit um Þá vel. Sofna Þeir skiótt. Frost ok fiúk [2]) (kveda helgalldra um húsÞekiur ok sýna Þeim, er út sá, sinn snarpan leik med lítilli mædi ok mikilli ógn) [3]) (gó elrishundrinn alla nóttina [4]) óÞrottligum kiöptum ok tögg med grimmum kulldatönnum allar iardir). Ok er lýsa tók um morguninn, Þá var út sét, ok er sá kom inn, spurdi Þorgeirr, hvat vedrs væri úti? sá svarar, at vedr væri samt ok um kvelldit. Sigrflióđ mællti: ecki Þurfi Þér vedrsiúkir at vera, velkomnir skulut Þér hér vera at Því, sem vér höfum faung á, ok farit hvergi hédan fyrr, enn gott er vedr. Þorgeirr svarar: vel ferr Þér húsfreya bod vid oss, enn ecki bíta oss illvedri,

1) ólíkt C..
2) vantar í 132. 566.
3) vantar í 142.
4) óÞrotnum. 132. 566.

Því at vér hyggium hvörki [1]) fyrir konum né börnum. [2]) Vedrit héllzt viku, lagdi Þá fiördu alla, ok gérdi Þá íslög mikil. Einn morgin snemma sá Sigrfliód út, ok kom inn farandi. Þorgeirr spurdi, hvat vedrs væri? hún svarar: nú er gott vedr, [3]) kyrt ok vedrlítit. Þormódr mællti: stöndum upp Þá sveinar. Sigrfliód mællti: hvat berist Þér nú fyrir? Þormódr svarar: vér munum fara fæti nordr á Strandir, ok vita, hvat til fángs vili verda, enn láta hér eptir skipit. Sigrfliód mællti: undarligir menn erut Þér, vilit fara at starfa at hvölum, enn taka ecki nálægri féfaung ok drengilegri. Þormódr spurdi, hver Þau féfaung væri? hún svarar: drengiligra sýnist mér at drepa illmenni Þau, er [4]) ræna góda menn, enn starfa at hvölum. Þormódr spurdi, til hverra hún mællti Þat. Hún svarar: Þetta mæli ek til Þeirra Ingólfs ok Þórbrands, er mörgum mönnum hafa gért skömm ok [5]) skada, hefndi Þér ok margra

1) eigum hvörki at siá fyrir — né kvikfé. öll.
2) Illvedrit. 142. 566.
3) Þunt ok óvindligt. B.
4) heria ok. 142.
5) klæki. 142.

manna í ydru verki, ef Þér legdut Þá vid velli, ok mundi ydr Þat verk margir gódu launa. Þormódr mællti: ei veit ek, hversu heilrád Þú ert nú, Því at Þeir eru vinir Vermundar[1]), ok mun Þat ei laust eptir renna, ef Þeim er gért nockut til meins. Sigrfliód mællti: at Því kémr nú, sem mællt er, at spyria er best til [2]) vóligra Þegna. Þér Þyckist vera garpar miklir, Þegar Þér [3]) kúgit kotúnga, enn krædist, Þegar er nockr er mannraun í.

Þorgeirr spratt Þá upp hart ok mællti: standit upp sveinar ok launit húsfreyiu [4]) gistíng. Þá stódu Þeir upp ok vopnudust, gánga Þeir út, er Þeir vóru búnir.

## VI.

## Drepnir fedgar Ingólfr ok Þórbrandr.

Nú fara Þeir fóstbrædr á ísi yfir fiördinn, komu á bæinn á Svidinsstödum, ádr

1) ok Þíngmenn. 142.
2) vaskligra. C.
3) erut í Þeim veg at kúga. 132. 566.
4) greida. 142.

menn stóda upp. Ingólfr vakti ok heyrdi, at menn geingu úti hiá [1]) ei allfáir. þeir þorgeirr drepa á dyrr. Vid Þat vakna Þeir menn, er inni vóru, standa skiótt á fætr, hvílldu Þeir fedgar iafnan í klædum, Því at Þeir áttu sökótt vid marga menn. þeir höfdu med sér tvo húskarla fráliga, Þeir herklæddust allir, ok tekr sitt spiótt hverr Þeirra fedga í hönd sér, gánga til dyranna ok lúka upp, siá mennina úti [2]) VIII saman vel vopnada, spyria, hverr Þar væri flocksforingi? þorgeirr svarar: ef Þér hafit heyrt nefndan þorgeirr Hávardsson ok þormód Bersason, Þá megi Þér Þá nú líta. þórbrandr svarar: [3]) ifalaust er Þat, at vér höfum heyrt Þeirra gétit, ok [4]) sialldan at gódu, edr hvört er yckar eyrindi híngat? þorgeirr svarar: Þat er eyrindi at [5]) skaka skaudir ok iafna óiafnat. Vilium vér géra ydr tvo kosti, annar er sá, at Þér gángit frá fé ydru öllu, Því [6]) er ydr

1) á frernum skóm. öll.
2) VI. 142.
3) vantar í 142.
4) at illu einn. 142.
5) skapa skör. 132. 566. skapa ok skéra hús. 142.
6) samandregit ok ydr. 142.

er ként ok Þér hafit [1]) lengi fengit med [2]) róligu, ok kaupit ydr Þannveg líf, edr verit fé med karlmeusku, medan ydr endist líf til. Þórbrandr svarar: vér höfum fiárins vel aflat med hrausleik, ok munum vér ei annan veg láta [3]), enn [4]) ek villda Þorgeirr, at fyrr neyttir Þú dagverdar á spiótsoddi mínum enn á fénu. Þorgeirr svarar: ek er mann berdreymastr [5]), ok hefir mik [6]) einkar órýrliga til mín dreymt, enn allrýrliga um Þik, ok mun Þat eptirgánga, ok mun hel húsfreya Þín leggia Þik sér í fadm ok vilia dauda bónda sins, ok muntu sva láta [7]) fé Þitt allt, Því at fyrnum nýtr Þat, er fyrnum fær. Nú at sva mæltu sækia Þeir Þorgeirr ok Þormódr at Þeim fedgum karlmannliga, enn Þeir veriast drengiliga, sækir Þorgeirr at Þórbrandi, enn Þormódr at Ingólfi. Þeir bönnudu förunautum sínum at vinna at Þeim fedgum, Því

1) lengi. vantar i öllum.
2) rángliga. öll.
3) enn vér höfum fengit. öll.
4) hygg. 132. 566. mér kémr Þat í hug. 142.
5) sem ek á kyn til. bæta öll. vid.
6) ecki ryrligt. 142.
7) lif ok. 142.

at Þeir vilia siálfir yfir Þá stíga. Nú er dimt at siá inn í dyrnar, Því at lítt var lýst, enn út var liósara at siá, ok var Þeim hægra at [1]) veriast er inni vóru. Húskarlar Ingólfs hlaupa út [2]) ok sækia at förunautum Þorgeirrs ok sæta áverkum vid Þá. Þau urdu endalok Þessa fundar, at Þórbrandr féll fyrir Þorgeiri enn Ingólfr fyrir Þormódi [3]) (tveir menn féllu af lidi Þorgeirs). Húskarlar Ingólfs urdu sárir miök [4]). Þessa gétr Þormódr í Þorgeirs drápa.

[5]) Alldrsspilli kved ek öllu
Ingólfssonar, híngat,
[6]) frétt eru víg Þau er ek veittag
valldr [7]) hásleipnis tiallda.
féll fyrir [8]) frægum stilli,
fiörtión var Þá lióna,

1) vega. 141.
2) annat skeid. bæta 132. B. C. vid.
3) vantar i 142.
4) Þess, at Þó batnar Þeim. 132. B. C.
5) Alldrspelli kvad ek. 132. B. C. öllum. 142.
6) víg, sem vætti. 132. 142. B. Þat ek veitti C.
7) alfaudurs. 132. 566.
8) fræknum. 132. 566. fregstum 142.

lítt var Þat til Þrætu,

[1]) Þórbrand drásilsvandar.

Þeir Þorgeirr taka tvo hesta ok klifia Þá af mat, Þeir ráku í burt naut [2]) Þau, er hellst var holld á. Fara vid sva búit austr yfir fiördinn. Sigrfliód var úti, er Þeir komu aptr, hún heilsar Þeim vel ok spyrr tídinda. Þeir segia Þau, er gérzt höfdu. Sigrfliód mællti: vel hafi Þér heiman geingit ok hagligan hvalskurd haft, rekit margra manna [3]) sneipu ok svívirdíng. Enn nú mun ék fara til Vatnsfiardar á fund Vermundar at segia hönum Þessi tídindi, Þér skulut bída mín heima. Þeir bádu hana ráda.

## VII.
## Sigrfliód fann Vermund í Vatnsfirdi.

Sigrfliód kvedr nú med sér húskarla sína Þria. Þau taka einn sexæríng, er hún átti, Þeir róa inn eptir Ísafirdi ok létta ei fyrr enn Þeir komu í Vatnsfiörd síd um aptan.

1) Þórbrandr. 132. B.
2) Þriú. 132. 566.
3) harma ok. bæta 132. 566. vid.

Sigrflióđ mællti þá viđ förunauta sína: nú skulu þér vera halldinordir ok segia ecki frá tídindum þeim, er giörzt hafa, látit mik háfa ord fyrir oss. þeir sögdu sva vera skylldu. Nú gánga þau til bæarins ok hitta þar menn at máli. Tekr Vermundr vel vid þeim, ok spyrr tídinda. þau kölludust eingi segia kunna. Vóru þau þar um nóttina í [1]) gódu yfirlæti. Um morguninn segir Sigrflióđ, at hún mundi heimfara. Vermundr latti þess, ertu híngat, segir hann, [2]) sialldkvæm, ok er þat rád, at þú farir ei sva skyndiliga. Sigrflióđ svarar: ek á illa heiman geingit, enn nú er gott vedr, ok vil ek þetta [3]) vedr ei láta undangánga. [4]) Vermundr kvad hana ráda mundu. Fara þeir til siófarins. Sigrflióđ mællti, at húskarlar skylldu flota skipinu, enn hún bregdr Vermuudi á einmæli, ok taka þau tal sín á milli. Sigrflióđ mællti: hafi þér spurt vígin þau, er giörd-

1) gódum beina. 142.
2) sialldfén. 132. 566.
3) færi. 132. B.
4) villda ek Vermundr, at þú fylgdir mér til skips. 132. 142. því ek á margt vantalat vid þik 142.

ust í Jökulsfirdi? Vermundr segir: hver víg er Þat? Sigrfliód svarar: Þórbrandr ok Ingólfr vórn Þar vegnir, ok [1]) tveir menn adrir. Vermundr segir: hverir drápa Þá? Þorgeirr Hávardsson ok Þormódr Bersason. Vermundr mællti: miök gánga Þeir nú af sér [2]) svaribrædr, er Þeir drepa menn fyrir oss, enn Þat mundi ek vilia, at ei dræpi Þeir [3]) fleiri mína menn. Sigrfliód mællti: Þat er von, at Þér sé sva géfit, enn Þat munu sumir menn mæla, at Þeir hafi ecki Þessa menn fyrir ydr drepit, helldr má hinn veg á kveda, at Þeir hafi fyrir ydrar sakir Þessi víg vegit, edr hverr skal [4]) hefna rán ok hernat, ef Þér vilit ei, er stiórnarmenn erut kalladir Þessa hérads, ok sýnist oss, sem Þeir Þorgeirr ok Þormódr hafi nu Þat unnit, er Þér værit skylldir til at géra, ok mun ydr sva sýnast, ef ydr géfr ei missýni í Þessu máli. Fór ek Því á ydvarn fund, at ek villdi Þá í frid kaupa, er vígin hafa vegit, ecki

1) vantar í 132. 566.
2) fóstbrædr. 132. 566. vantar í 142.
3) marga. 132. 566.
4) hegna ósidu rán eda hernat. 132. B. rán eda stulldi 142.

fyrir Þá sök, at Þeir séu bótaverdir, er vegnir vóru, fyrir Því, at Þeir hafa fyrir laungu fyrirgért bædi fé ok lífi, helldr vilium vér géra í öllu ydvarn sóma. Nú er hér [1]) hundrat [2]) skotsilfrs, er ek vil Þér géfa til fridkaups Þeim Þorgeiri ok Þormódi. Hún bregdr undan [3]) skickiu sinni fésiód ok hellir silfrinu í kné hönum. Silfrit var gott, hefur Vermundr brún upp vid fégiöfina, sævast nú, [4]) ok heitir Þeim [5]) nockurum fridi, sagdist Þó ei vilia lángvistir [6]) Þeirra í Ísafirdi. Nú skiliast Þau, ok ferr hún heim til bús síns, ok sagdi Þorgeiri ok Þormódi, hversu farit hafdi med Þeim Vermundi. Þeir Þöckudu henni sín tillög. Nú eru Þeir med henni á vist um vetrinn til Þess er vora tók og vedrleikr batnadi. Flota Þeir skipinu, ok er Þeir vóru fararbúnir, Þacka Þeir Sigrflióđ vistarveizlu ok [7]) allan velgiörníng,

1) CCC. öll.
2) silfrs. öll.
3) belltí öll.
4) hann af reidinni. 132. C. í rædum. 142.
5) gridum. 142.
6) Þorgeirs. 132. C. B.
7) slíkan drengskab, sem hún hafdi Þeim synt. bæta 132. 566. vid.

Þann er hún hafdi Þeim veittan. Skiliast Þau vinir, fara Þeir nordr á Strandir, ok [1]) hafast Þar vid um sumarit, ok verdr Þeim gott til fiár, [2]) hafa Þat af hverium, er Þeir kvödu á, vóru allir vid Þá kræddir, sem fénadr vid leó, Þá er hann kémr í Þeirra flock.

Bersi fór bygdum á Laugaból í [3]) Lángárdal, Því at Vermundr villdi eigi láta vera vid bæ sinn hráskinn Þeirra Þorgeirs ok Þormódar.

Um haustit fara Þeir (Þorgeirr ok Þormódr) nordan af Ströndum til Ísafiardar ok setia upp skip sitt Þar sem Þeim Þótti vel komit vera, ok búa Þar um. Ferr Þormódr til födrs síns, enn Þorgeirr ætladi at fara sudr til Reykianess til frænda sinna. Leitar Þá hverr fyrir sér förunauta Þeirra Þángat, sem Þeir áttu ódul, mælast Þeir vid, ádr Þeir skiliast, at Þeir mundi Þar finnast Þá, er vora tæki, ok fara Þá enn allir nordr á Strandir. [4]) Skiliast at sva mælltu [5]).

1) hefiast. C.
2) ok fángs. bæta 132. 566. vid.
3) Laugadal. 132. B. Lángadal. 142. C.
4) til fánga. bæta öll. vid.
5) ok bidr hverr vel fyrir ödrum. bæta 132. 566. vid.

## VIII.
## Þorgeirr drap Butrallda.

Þorkéll hét madr, er bió í Gervidal. Hann var vel fiáreigandi, enn lítill í Þegnskab, [1] (einrænn í skaplyndi) enn huglaus í hiarta. Hann var kvongadr madr, hann hafdi ecki fleiri hión enn Þriú, gridkona var [2] hinn Þridi madr. Butralldi hét madr, hann var einhleypíngr, mikill madr vexti ok rammr at afli, liótr madr í ásiónu, hardfeingr í skaplyndi, vígamadr mikill [3], náskylldr Vermundi í Vatnsfirdi, hann var [4] nasbrádr ok heiptudigr. Hann hafdi vist á sumrum, enn lét [5] rekast yfir á vetrum, hann var óvinsæll [6] iafnan fór hann yfir á vetrum vid Þridia mann, ok settist á bú manna nockrum nóttum saman, enn fyrir sakir frændsemis vid Vermund, var hönum ei [7] golldit Þat verdkaup, er hann vann til.

1) eyrinn. 132. 566. vantar í 142.
2) ok Þau tvö. 142.
3) skulldr. öll.
4) nasbreidr. C.
5) reidast. öll.
6) ok vann hann til Þess. bætir 142. vid.
7) skiótt. öll.

Butralldi kom vid hinn Þridia mann til gistíngar um aptan til Þorkéls, ok, Þó at Þorkéli væri matrinn sár, Þá Þordi hann Þó ei at synia Þeim gistíngar. Var Þeim fylgt til stofu ok kveikt liós. Sitia Þeir med vopnum, enn heimamenn vóru frammi [1]). Þá var af vetri nockut, komin sniár á iörd í skafla á fiöllin, enn [2]) sniólaust í héradi [3]). Þorkéll kom stundum í stofu at spyria Þeirra luta, er hönum var forvitni á at vita. Hann spyrr Butrallda, hvört hann ætladi at fara? hann kvazt fara skylldu sudr um heidi til Breidafiardar. Þorkéli kom í hug, at eigi væri víst, at Þeim mundi vedr géfa hinn næsta dag, Þá drap [4]) stall hiarta hans ok Þótti ill seta hans, Því at í hans hiarta mættust Þær sínka ok lítilmenska, ok í Því bili var drepit á dyr ok batnar hönum ecki vid, gengr framm ok til dyranna, lýkr upp hurdinni ok sér einn mikinn mann fyrir dyrum

1) í skála. bætà 132. 566. vid.

2) miök. öll.

3) vötnin [1]) uppgéngin, enn Þá var frostvidri, var Þá ok fiúk nockut. bæta öll. vid.

4) stall úr. 132. B. stallr. C.

[1]) grunnstiglut. 142.

standa med vopnum. Þorkéll spyrr Þenna mann at nafni. Hann kvazt Þorgeirr heita ok vera Hávarsson. Þá kom ædra í bríóst Þorkéli, ok [1]) (klappadi um hans hiarta ok) dattadi vid. Þorkéll mællti: hér er kominn Butralldi vid hinn Þridia mann, ok veit ek ei hvörn frid hann vill ydr bióda, hygg ek, at hann hafi illan hug á Þér, enn ek má ei mannsblód siá, ok mun ek falla í óvit, ef Þér [2]) berist á. Þorgeirr svarar: ecki mun tilsaka [3]). Gengr til stofu, sezt Þar nidr á annan beck gagnvart Butrallda. Þeir mælast ecki ord vid, sitia hvörutveggiu med vopnum. Þorkéll kom ok kona hans í stofu, tekr hann upp bord, ok setr fyrir Þá Butrallda. Þorkéll mællti: skammr er skutill minn, Þorgeirr, gacktu híngat ok sittu hiá Butrallda. Þorgeirr reis upp ok geingr um Þvert gólf ok sezt nidr undir bordsenda. Frá verdgétum er vandliga sagt. Tveir vóru diskar frammsettir, Þar var eitt fornt skammrifsstycki á diski hverium ok forn ostr til gnæg-

1) vantar í öllum.
2) beriest. B.
3) Þótt Þeir sé hér komnir. bæta öll. vid.

tar. Butralldi signdi skamma stund, [1]) ok tók upp skammrifsstyckit, ok leggr ei fyrr nidr enn af var allt. Þorgeirr tók upp osthlutinn, ok skar af slíkt, er hönum sýndist, hann var hardr ok torsóttr. Hvörgi Þeirra villdi [2]) eiga vid annan kníf né kiötstycki. Enn Þó at Þeim væri líttvandadr náttverdr, Þá fóru Þeir Þó ei í búr at skepia sér náttverd, Því at Þeim Þótti Þat svívirdíng sinnar karlmensku. [3]) Ok, er Þeir vóru mettir, Þá fór Þorkéll í stofu ok kérlíng hans, tók hún mat af bordi. Þorkéll mællti: Þau gistíngarlaun villda ek af ydr hafa, at Þér ættust eigi illt vid, medan Þér erut á mínum bæ, sýnist mér Þat rád, at Þorgeirr sofi frammi hiá oss, enn Butralldi ok hans förunautar sofi í stofu. Sofa Þeir af Þá nótt. Um morguninn rísa Þeir upp, bóndi reis ok upp, liós var kveikt, bord frammsett ok matr áborinn med sama hætti og um kvölldit [4]). Ok, er Þeir vóru

1) mat. bætir 142. vid.

2) deila. öll.

3) Þorkéll matadist framm vid elld ok kona hans, ok skygndu Þau stundum í stofu allófremmliga. bæta öll. vid.

4) Þorgeirr tekr Þá skammrifit, enn Butralldi byr vid ostinn. bæta öll. vid.

mettir, Þá fór Butralldi í burt ok hans förunautar. Hann ferr upp eptir dalnum. Nockru sídar ferr Þorgeirr í brott ok upp eptir dalnum. Brött heidarbrecka liggr upp úr Gervidal, Þar sem leidin liggr í breckunni var hardfenni mikit ok skafl. Þorgeirr sér för Þeirra Butrallda, ok sér, at Þeir munu hafa hardfenni mikit í heidarbreckunni ok torvellda leid, snýr yfir ána, ok ferr ödrumegin upp, enn Þeir fara. Kémr hann upp á breckuna, ok snýr Þá til Þiódleidarinnar. Hann [1]) kémr nú at skaflinum, ok skorar med öxinni fönnina fyrir sér. Butraldi lítr nú, hvar Þorgeirr ferr. Hann mællti Þá: rennr kappinn nú Þorgeirr Hávarsson? hann svarar: [2]) ek mun nú ei leingra undan ydr fara. Þorgeirr stendr á breckunni, enn Butralldi skorar fönnina. Ok, er hann kom í midia [3]) fönnina, Þá setr Þorgeirr spiótskaptit í millum fótanna, ok snýr framm oddinum, hefr öxina reidda um öxl, rennir

1) Butralldi. bæta öll. vid.

2) ei rann ek, enn Þvi fór ek adra leid, at ek Þurfta ei fönn at skora hér fyrir mér. bæta öll. vid.

3) breckuna. öll.

sídan ofan at Butrallda. Hann heyrir [1]) hviminn af för Þorgeirs, lítr upp, ok finnr ei fyrr enn Þorgeirr hió framan í fáng hönum ok þar á hol. Féll hann á bak aptr, enn Þorgeirr rennr yfir framm til þess, er hann kémr á iöfnu sva hart, at förunautar Butrallda hrutu frá í brott [2]). Förunautar Butrallda þordu ei at hefna hans né at ráda at Þorgeiri, því at þeim þótti illt at eiga náttból undir öxi hans. [3]) Starfa þeir at líki Butrallda. Enn Þorgeirr snýr upp á heidina, ok fór til þess, hann kom til Reykiahóla. Hefir þar gódar vidtökr, er hann þar um

1) hvininn. ö l l.

2) Vel dugir verk at telia
[1]) vopnahreggs fyrir seggium,
[2]) Opt flugu geirs frá gunni
[3]) giód Butrallda hlódu.
[4]) Þat kunni mér minni
[5]) margr iódanna þiódar,
[6]) né ek hnacka því þackir
þess vígs fetils stíga. b æ t a ö l l. v i d.

3) stumra. 132. C. styrma. B.

[1]) vopnshregg. C.
[2]) flygr geirr. 132. B. geirs. C.
[3]) Butrallda hlióda, 132. 566.
[4]) þótt. 132. 566.
[5]) marghrodanda. 132. 566.
[6]) né ek hneckig því þackar. 132. B. hveck því þockar. C.

vetrinn [1]). Um vorit fór þorgeirr vestr til Ísafiardar, Þar sem skip Þeirra stód uppi, kémr þormódr Þar ok skipveriar Þeirra, ok fara nordr á Strandir, Þegar Þeim gaf vedr.

## IX.

## Þorgeirr felldi Þórgils ok hans menn.

þórgils hét madr, er bió at Lækiamóti í Vídidal. Hann var mikill madr ok sterkr, [2]) vopnfimr, gódr búÞegn. Hann var [3]) náinn at frændsemi Asmundi Hæruláng födr Grettis ok miök skylldr þorsteini Kuggasyni. þórgils var kalladr [4]) Mágsson. Hann var kominn á Strandir á almenníngar, ok var Þar geinginn á hvalskurd ok förunautar hans. þorgeiri vard illt til fiár og fengiar, Þar sem hann var kominn. Ber hönum nú engi hvalföng í hendr né önnur gædi. Nú spyrr hann, hvar Þeir Þórgils vóru at hval-

1) í gódu yfirlæti. Vetrarríki var mikit, og féll fé fyrir mönnum, búin óhæg stórvída í sveitum. Sóttu því margir á Strandir til hvalfánga, bæta öll. vid.

2) vel vopnfær. 142.

3) skylldr. 132. 566. miök. 142.

4) Mársson. 132. 566.

skurdinum. Fara Þeir þormódr Þángat, ok, er Þeir koma Þar, Þá mællti þorgeirr: Þér hafit mikit [1]) at verki ok er Þat rád at láta fleiri menn nióta [2]) Þar, er öllum er iafnheimillt. þórgils svarar: [3]) gángit á hvalinn ok skérum hvörirtveggiu Þat, sem óskorit er, ok hafi Þá hvörir Þat er skéra. þorgeirr mællti: Þér hafit nú mikinn luta afskorit, ok vilium vér annathvert, at Þér gángit af hvalnum, ok hafi Þér Þat, sem skorit er, enn vér Þat, sem óskorit er, ella eigum at helmíngi allan skorinn ok óskorinn. þórgils svarar: leitt er oss at gánga af hvalnum, enn vér erum rádnir til at láta ecki Þann lut fyrir ydr, er skorinn er, ef vér megum áhallda. þorgeirr mællti: Þat munu Þér ok [4]) vita verda, hve lengi Þér megit áhallda hvalnum fyrir oss. þórgils svarar: Þat er ok vel, at sva sé. Nú herklædast hvörirtveggiu ok búast hverir til bardaga. Ok er Þeir vóru vopnadir, Þá mællti þorgeirr: Þat

1) atgiört um hvalskurdinn. bæta. öll. vid.
2) þessa fángs. 142. gagnsmuna. 132. 566.
3) þetta er vel mællt. bæta 132. 142. vid.
4) reyna.

vil ek þórgils, at vid beriumst tveir einir; Þú ert madr fulltída ok reyndr [1]) iafnan at karlmensku, ok er mér forvitni mikil at reyna mik á Þér, hverr ek er, skulu adrir menn ecki tilhlutast med ockr. þórgils svarar: vel líkar mér, at sva sé. [2]) Nú sækiast Þeir þórgils ok þorgeirr[3]), ok láta skamt stórra höggva í milli, Því at hvörrtveggi Þeirra var stórhöggr. Enn fyrir Því, at þorgeirr var meir lagdr til mannskada, Þá féll þórgils fyrir þorgeiri. Í Þeim bardaga féllu III menn af lidi þórgils ok III menn af þorgeiri. Eptir Þenna bardaga fóru förunautar þórgils nordr til hérads med miklum harmi. þorgeirr tók upp allan hvalinn [4]); enn um víg þórgils vard þorgeirr sekr skógarmadr [5]). þeir þorgeirr ok þormódr vóru Þat sumar nordr á Ströndum, ok vóru Þar allir menn bræddir vid Þá. [6]) Um haustit fóru Þeir til Reykia-

1) vanr vopnum. 142. knáligr. 132. 566.
2) miök vóru þeir iafnlida. öll.
3) allfrækiliga. 142.
4) skorinn ok óskorinn. öll.
5) fyrir hans sekt réd þorsteinn Kuggason Hærulángr öll.
6) geingu þeir yfir sem loki yfir akra. öll. ( ) vantar í öllum.

er yfir margan géngr. Hann svarar: Þó at Þér hafit allir rannsakadir verit, Þá mun ek Þó eigi upplúka kistunni. Illugi spratt Þá upp, hann hafdi eina stóra öxi í hendi. Hann mællti: ef Þú vill eigi frammselia Þínn lykil, segir hann, Þá hefi ek at vardveita[1]) kóngsöxi Þá, er lykill er at öllum lásum til at upplúka. Nú mun ek med Þeim lykli upplúka kistunni. Hann sá, at Illugi mundi upplúka kistunni, selr framm lykilinn, ok lýkr Illugi upp, ok finnr Þar marga [2]) gripi, Þá er mönnum hafdi horfit. Þá Þóttust menn vita, at hann mundi stolit hafa öllu fénu. Var hann Þá neyddr til sagna, gengr hann Þá vid mörgum stulldum, ok fylgir Þeim Þar til, er hann hafdi folgit fé úti í ýmsum stödum. Illugi mællti Þá: ólífismadr sýnist mér Veglagr vera, ok er Þat mitt rád, at hann sé hengdr. Þorgeirr mællti: eigi muntu sva vilia skiliast vid [3]) smid Þínn. Illugi svarar: rángt sýnist mér, at sva mikill Þiófr gángi undan. Þorgeirr mællti: hvört sem

1) kóngslykil. ö l l.

2) lykla Þá, er atgengu öllnm lásum á Reykiahólum, Þar finnast ok. öll.

3) húskarl. ö l l.

Þat er rétt edr rángt, Þá mun hann ydr dýrkeyptr verda, ef ek má ráda. Illugi mællti: mikit kapp leggr Þú á med Þiófnum, ok munt Þú illt at [1]) sök hafa, ok eigi mun Þinn heidr of allt standa fyrir hönum, Þó at hann gángi nú undan. Nú fari hann burt af Reykianesi, oÞ komi alldri aptr [2]). Nú fylgir Þorgeirr Veglagi vestr á Laugabol til Þeirra Þormódar ok Bersa, ok bad, at Þeir mundi taka vid hönum [3]). Þeir tóku vid hönum fyrir sakir Þorgeirs, ok var hann med Þeim um vetrinn.

## XX.

## För Þorgeirs til Orkneya.

[4]) (Þat bar til um vorit eptir, at Þeir Þorgeirr ok Þormódr fóru nordr á Strandir ok allt nordr til Horns. Ok einn dag fóru Þeir í biarg at sækia sér hvannir ok í einni tó, er sídan er köllut Þorgeirstó. Skáru Þeir miklar hvannir. Skylldi Þormódr Þá upp

1) verki. 132. 566.
2) vel má Þat, segir Þorgeirr. öll.
3) til fardaga ok færa Þá til skips í Vadil, ok sagdist Þorgeir Þá mundu flytia hann í brott. bæta öll vid.
4) ( ) vantar í öllum.

bera, enn Þorgeirr var eptir. Þá brast aurskrida undan fótum hans. Hönum var Þá Þat fyrir, at hann greip um einn hvannnióla med grasinu ok héllt Þar nidri allt vid rótina, ella hefdi hann ofan fallit. Þar var sextogt ofan á fiörugriót. Hann gat Þó eigi uppkomizt ok héck Þar Þann veg, ok villdi Þó med engu móti kalla á Þormód sér til biargar, Þó at hann félli ofan á annat bord, ok var Þá bani viss, sem vita mátti. Þormódr beid uppi á hömrunum, Því at hann ætladi, at Þorgeirr mundi upp koma, enn, er hönum Þótti Þorgeiri dveliast sva miklu lengr, enn von var at, Þá gengr hann ofan í skridu hiallana. Hann kallar Þá ok spyrr, Því hann komist alldri, edr hvert hann hefir eigi enn nógar hvannir? Þorgeirr svarar Þá med óskélfri röddu ok óttalausu briósti: ek ætla, segir hann, at ek hafi Þá nógar, Þá er uppi er sú, er ek helld um. Þormód grunar Þá, at hönum muni eigi siálfrátt um. Ferr Þá ofan í tóna ok sér vegs ummerki, at Þorgeirr er kominn at ofanfalli, tekr hann Þá til hans ok kippir hönum upp. Enda var Þá hvönnin nær öll upptognut. Fara

Þeir Þá til fánga sinna. Enn Þat má skilia í Þessum hlut, at Þorgeirr var óskélfr ok ólífhræddr, ok flestir lutir hafa hönùm verit karlmannliga géfnir sakir afls ok hreysti ok allrar atgervi. Segia menn, at Þeir hafi verit allir Þrír á einni vist á Béykiahólum, Þorgeirr, Þormódr ok Grettir hinn sterki Asmundarson, ok hafi verit nærr afl Þeirra tveggia ok Grettis eins. Segia menn ok, at Þórgils hafi sva sagt at lögbergi á alÞíngi, er hann var spurdr at vetrtaks mönnum sínum, hvört Þeir mundu eigi röskvastir menn á öllu Islandi, ok síst kunna nockut at hrædast, enn svaradi Því sva, at Þat væri eigi sva, Því at Grettir var myrkhræddr, enn Þormódr gudhræddr, enn Þorgeirr, segir hann, ecki vætta hræddast kunna ok síst bregda sér vid nockurn voveifligan háska.) Sídan fóru Þeir nordr á Strandir med feng Þann, er Þeir hòfdu fengit. Fór Þorgeirr heim á Reykiahóla enn Þormódr á Laugaból. Um [1]) sumarit eptir bió Þorgeirr skip sitt. Veglagr kom til skips, ok tók Þorgeirr vid hönum ok flutti hann utan. Skipit kom vid Orkn-

1) vorit. öll.

eyar. Rögnvalldr Jarl Brúsason var Þá búinn til hernadar, Því at víkíngar margir lágu um eyarnar [1]). Þorgeirr selr Þá kaupskipit ok rédst í lid med iarli. Veglagr fór upp á Skotland ok gérdist Þar mikill Þiófr ok var Þar [2]) heingdr sídan. Þorgeirr virdist vel, [3]) Því at hann reyndist Því meiri kappi, sem meiri mannraun kom til. Sva orti Þormódr:

Niördr géck á [4]) skíd skordu
[5]) skeligr, enn Þat telium,
[6]) hialldrs, at heria villdi
[7]) hungalldrs med Rögnvalldi.
[8]) Lítt spardi fiör firda
[9]) fremdarmilldr at hilldi,
[10]) drengs vard dád at lengri,
diarfr Hávars arfi.

1) Þeir, er ræntu bædi kaupmenn ok bændr, ok villdi Rögnvalldr refsa Þeim sin illvirki. bæta öll vid.
2) drepinn um sídir. 132. 566.
3) Rögnvalldi ok hans förunautum. öll.
4) skæ skordu. 132. B. Nordr géck á skit. C.
5) skírligr er Þat telin. C.
6) hialldr er. 132. 566.
7) hiörgalldr. öll.
8) fé firda. 142.
9) fremd gylldir. C.
10) drengr vann. 566.

Í hernadi vard þorgeirr ágiætr madr hug og vopnfimi. Jarl vard ágiætr af Þessari ferd, Því hann sigradist, hvar sem hann kom. Um haustit fór þorgeirr til Noregs ok var med Olafi kóngi [1]). Um vorit bió Illugi skip sitt til Íslands. þorgeirr segir, at hann vill fara med hönum. Illugi mællti órádligt sýnist mér Þat, at Þú farir til Íslands, Því at Þú ert hér vel kominn med kónginum, enn Þú átt fáss góds at vitia til Íslands[2]). Nú mun ek eigi flytia Þik frá fridinum til ófridarins, Því at Þú munt ecki sva mikit gott upptaka á Íslandi, sem Þú hefir hér af kóngi. þorgeirr svarar: vera má, at ek komunst til Íslands, Þó at Þú flytir mik eigi. Nú býr Illugi skip sitt ok lætr í haf, Þá at hönum gaf byrr. Ok, er Illugi var í brott, Þá géck þorgeirr til kóngs ok bad sér fararleifis. Olafr kóngr segir: sva virdist mér, at minni mannheill hafir Þú á Íslandi enn hér med oss, ok Þycki mér rádligra, at Þú sért hér med oss enn á Íslandi.

1) Olafr kóngr þackadi hönum, er hann rak þeirrar sneypu, er Þórir hafdi hönum giört. bæta öll vid.
2) hefir þú stórvirki gért í mörgum hérudum ok, áttu þar í flestum stödum illa fridt, enn hefir mikinn sóma af kóngi. bæta öll vio.

þorgeirr sótti miök Þetta mál, enn, er kóngr sá, at þorgeiri Þótti mikit undir, at hann lofadi hönum, Þá mællti kóngr: nú mun at Því koma, sem ek sagda í fyrstu, er ek sá Þik, at Þú mundir ecki med öllu giæfumadr, enn nú mun ek lofa Þér, at Þú farir út til Íslands, enn eigi munum vér optarr siást, ef vid skilium nú. þorgeirr mællti: Þöck kann ek ydr, at Þér lofit mér förina, enn Þat ætla ek at sumri, at fara Þegar á ydvarn fund. Kóngr mællti, vera má, at Þú ætlir sva, enn eigi mun sva verda. Nú skiliast Þeir at sva mælltu. þorgeirr tók sér far med Þeim[1]) manni, er Jökull hét ok fór med hönum til Íslands. þat skip kom í Vadil, ok fór þorgeirr á Reykiahóla til vistar. Illugi reiddi lengi úti um sumarit ok kom skipi sínu síd um haustit nordr í Hraunhöfn á Melrackasléttu. Hann setti Þar upp skipit ok bió Þar um, [2]) ok fór sídan nordan um sveitir, ok ætladi heim á Hóla. Gautr Sleitusen, er fyrr var gétit, kom til fundar vid Illuga ok tók sér far med hönum at sumri.

1) norrænum. bæta 132. 566 vid.
2) ok féck menn til vardveizlu um vetrinn. öll.

Einn dag, er Illugi ádi hestum sínum, kom madr at hönum, sá var í heklu [1]) hvítri. Hann kvaddi hann. Illugi tók kvediu hans ok spurdi, hverr hann væri? Hann svarar: ek heiti Helgi. Illugi segir, hvadan ertu kyniadr? Hann svarar: kyn mitt stendr vída fótum, enn Þó er Þat flest fyrir sunnan land, enn hvergi á ek heima nú, ok ecki hefi ek heill til Þess at hafa tveggia missira biörg [2]), enn iafnan tekr ek kaup á sumrum ok margir menn kannast vid kénníngarnafn mitt, er ek er kalladr Helgi Selseysta. Illugi mællti: fánefnt er Þat, enn Þó hefi ek ei heyrt Þín gétit. Hann mællti: Þat er eyrindi mitt híngat, at ek vill vita, ef Þú vill flytia mik utan at sumri. Illugi mællti: eru Þér nockr vandrædi á höndum, eda hefir Þú nockut fé? Helgi svarar: engi hefir ek vandrædi enn [3]) lítit fé, enn vera mætti sva, at Þér væri [3]) handléttir at mér, Því at ek er ofléttr mad. Illugi mællti: ertu nockr íÞróttamadr? Engi, segir hann, enn

1) svartri. 142.
2) at vera II missiri í vist.
3) ei hef ek. öll.
4) létti, 142. B. C. húsléttí. 142.

mikit á ek traust undir fótum, ok brióstheill madr er ek, Því at engi fær tekit mik á rás. Illugi mællti: gagn væri at Því Þeim, er allhræddr er. Helgi svarar: eigi hefi ek Þat reynt at verda allhræddr, enn vita vil ek, hvört Þú vill veita mer farit? Illugi mællti: kom til fundar vid mik í vor, ok ver med mér í flutníngum, [1]) er ek dreg saman vöru mína, ok far Þá med mér til skips. Helgi svarar: siá kostr líkar mér allvel. Nú skilia Þeir at sva mælltu. Fór Illugi vestr á Reykiahóla, ok var Þar um vetrinn.

## XXI.

## Þorgeirr drap Gaut Sleituson.

Brædr II biuggu í [2]) Garpsdal. Hét annar Kálfr, enn annar Steinólfr, Þeir vóru á úngum alldri, vinsælir menn ok vel audigir. Þórdís hét kona, er bió í Olafsdal, hún var eckia, gód húsfreya ok gagnsöm. Son hennar hét Eyúlfr [3]), hann var gérviligr madr ok vinsæll. Þorgeirr hét frændi

1) er ek flyt. öll.
2) Gervidal. C.
3) hann var at búi med henni, 142. átti bú. 132. 566.

þórdísar, er hún hafdi uppfædt [1]), hann hafdi Þat kénníngarnafn, at hann var kalladr þorgeirr Hófleysa, enn Þat nafn hlaut hann af Því, at hann hafdi til alls meira enn Þurfti [2]). Med Þeim [3]) brædrum Eyúlfi ok þorgeiri var vingott [4]). þeir vóru bádir gérviligir menn ok knáir ok miök ólatir, ok var mikit um Þá laungum. Med þórdísi var frammfærslu kérlíng. Hún amadist opt vid glýmr Þeirra, enn Þeir glettust Því meir vid hana. Ok einn dag glýmdu Þeir á gólfi, var mikit um Þá, kvomu Þeir opt vid kéllíngu ok drógu verk hennar á fótum sér. þá mællti kérling: lítil fremd er í Því at spilla verki mínu, enn spá mun ek yckr spá: sva vel sem nú er med yckr, Þá munu Þid tveir fóstbrædr vest skilià yckar vinfengi [5]). þeir svörudu: einkar óspálig sýnist oss Þú vera. Kérlíng svarar: hversu sem yckr sýnist, Þá mun Þat eptirgánga. Um vorit, er Þeir

1) hann var fráligr madr. öll.

2) þegar hann átti fé fyrir at ráda. bæta öll vid.

3) fóstbrædrum. öll.

4) á únga alldri. öll.

5) ok fóstbrædralag. 142.

Illugi ok þorgeirr höfdu verit á Reykiahólum beiddi þorgeirr Illuga, at hann skylldi veita hönum far med sér um Íslands haf. Illugi veitti Þat, sem hann bad. Kálfr ok Steinólfr tóku sér far med Illuga. Nú, er menn fóru til [1]) skips um sumarit, Þá mællti Illugi vid þorgeirr: Þat villda ek nú frændi, at Þú færir til skips med mönnum mínum, enn ek á eyrindi til Þíngs [2]) (med Þridia mann) at hitta vini mína, muń ek rída nordr af Þíngi, ok villda ek, Þá væri skipit albúit. þorgeirr kvad sva vera skylldi, sem Illugi villdi. þorgeirr fór nordr á Sléttu til skips, enn Illugi bióst til Þíngs. Kálfr ok Steinólfr ok Helgi Selseysta vóru í för med þorgeiri, enn vara Þeirra fór fyrri nordr [3]). þá, er þorgeirr kom í Hraunhöfn, setti hann framm skipit ok bió. Gautr Sleituson var til skips kominn ok hafdi annat mötuneyti. þar var illt til elldividar, ok fóru sinn dag hvörir at afla elldividar. Einn dag fór þorgeir at

1) þíngs. 142.
2) vantar í öllum.
3) þórgils Arason ok Illugi bródir hans ok Ari son hans ridu med flocki til þíngs úr Breidafirdi. bæta öll vid.

afla elldividar, enn Gautr var heima. Matsveinar Gauts höfdu kétil uppi, ok er vella var komin á kétil Þeirra, Þá var lokit eldividi. Segia Þeir Þá til Gauti. Hann gengr til tiallds þorgeirs ok höggr spiót hans af skapti, hann tekr ok skiölld þorgeirs, gengr til elldstóarinnar, klýfr í sundr skiölldinn ok spiótskaptit, ok elldir undir katlinum, verdr Þá vel matbúit. þorgeirr kom heim um kvelldit ok saknar nú skialldar síns ok spióts. Hann spyrr, hverr sveina hans [1]) hafi skiölld hans ok spiót? Gautr svarar: ek tók skiölld Þinn ok spiótskapt ok klauf ek undir kétil vorn, er ádr mátti eigi matbúa; Því at lokit var elldividinum, enn oss Þótti íllt hrátt at eta, enn spiót Þitt liggr í rúmi Þínu. [2]) (þorgeirr svarar: naudsýn var Þat, at Þér byggit mat ydvarn til sva, at Þér ætit ecki hrátt, Því at Olafr kóngr bannar hverium hrátt at eta). Nú fann eigi á þorgeiri, at hönum mislíkadi Þessi tiltekia. þorgeirr var heima annan dag ok bió skip sitt, enn Gautr fór at elldibröndum med förunautum

1) brott borit. öll.
2) ( ) vantar í öllum.

sínum. Matsveinar þorgeirs höfdu kétil uppi, Þeim vard elldividar fátt ok sögdu til þorgeiri. Hann fór til tiallds Gauts ok tók skiölld hans, ok spiót hió hann af skapti, ok klauf undir kétil hvörttveggia, ok skorti hann eigi elldividinn. Gautr kom heim ok fann spiót í rúmi sínu skaptlaust, skiölld sinn sér hann hvörgi. Hann spyrr Þá, hvat menn viti til skialldar hans ok spiótsképtis? þorgeirr svarar: skiölld Þinn ok spiótsképti klauf ek undir kétil [1]). Gautr mællti: seint lætr Þú af at auka oss skapraunir. þorgeirr svarar: sva er leikr hverr, sem heiman er giörr. Gautr hió Þá til þorgeirs, 'enn hann laust af sér höggit med öxi sinni, ok skeindist Þó lítt á fæti. þá hlupu menn á milli Þeirra ok hélldu Þeim. Eigi Þurfi Þér at hallda mér, mællti þorgeirr, Því at ek mun mik til einkis líkligan géra at sinni. Nú fara hverirtveggiu til tiallds síns,[2]) ok um nóttina, er menn vóru sofnadir, rís þorgeirr upp, tekr öxina í hönd sér ok gengr til tiallds Gauts ok sprettir tialldskörum ok

1) því at sveina vantadi elldivid. öll.

2) ok hallda náttverd. 132. 566. hafa nætrfrid. 142.

gengr at rúmi Gauts ok vekr hann upp. Gautr vaknar ok [1]) sprettr upp ok villdi taka til vopna. Í Því bili hió Þorgeirr til hans ok klauf hann í herdar nidr. Féck hann af Því skiótan bana. Þorgeirr gengr í burt ok til tiallds síns. Búdarnautar Gauts vöknudu vid brestinn, er hann var veginn. Styrmdu Þeir Þar yfir hönum daudum ok biuggu síd-an um lík hans.

Um Þennan atburd kvad Þormódr vísu:

[2]) Gaut veit ek son Sleitu
[3]) snarfengan med lid drengia
haulldr vid hardar deilldir
[4]) hiördiarfan er nam fiörvi.
[5]) Enn hné örvaspennir,
álmÞíngs í gný málma,
[6]) rík vard Þeim er rækir
[7]) raun ofstopa launat.

1) vill spretta. öll.
2) Gautr. 132. B. C. hét son. C.
3) snarfengr. öll.
4) hió diarf. öll.
5) ófeigum vard eigi. 142. ofeigin. 566.
6) ok vard ríkr Þat rækir. 142. opt verdr. 132. 566.
7) raun stynfullu launat. 132. 566.

## XXII.

## Daudi Þorgeirs.

Eptir Þenna atburd sá Þeir um dag, hvar skip sigldi af hafi Þángat til Hraunhafnar. Þat skip tók Þar höfnina ok lá vid ackéri eigi allnær [1]) landi. Þorgeirr fór á báti med skipverium sínum til kaupskipsins ok spurdi, hvörir fyrir skipinu rédi? hönum var sagt, at Þorgrímr Einarsson, er kalladr var Trölli, Grænlenzkr madr, rædr fyrir skipinu ok Þórarinn Ofsi Þorvalldsson, Nordlenzkr madr. Þeir spurdu, hvörsu fiölment Þeir hefdi á skipinu? Þeim var sagt, at Þeir væri XL [2]) manna innanbords. Nú sá Þorgeirr, at Þar var mikill lidsmunr, ef Þá skilldi nockut á, Því at Þeir Þorgeirr vóru eigi meir enn [3]) XX vígir menn. Þorgeirr mællti: ydr kved ek at Þessu stýrimennina, Þat er mællt af mörgum mönnum, at vér sém hvarirtveggiu [4]) ofstopamenn. Nú sýnist mér Þat rád, at vér giæt-

1) skipi Þorgeirs. 132. 566.
2) vígra karla. 142.
3) XX. 142.
4) óiafnadarmenn ok eigi ógiarnir vid adra. bæta öll vid.

im hvörutveggiu, at vér gérim eigi vora hreysti edr hardfengi at fíflsku ok ófridi, sýnist mér Þat rád, at vér setim grid med oss til varygdar. Þeir tóku Því vel, ok fór Þat framm, at gridin vóru sett. Sva segir Þormódr:

[1]) Gulls rett Þorgeirr Þolla
Því næst grida æsta,
[2]) sér er hann sitt færri,
svinngédr med lid minna.
[3]) Öll tók seggr enn snialli
[4]) sannligs fridar mönnum
[5]) fliótt Þá er firdar nýta
fullmæli réd tæla.

Nú er grid vóru sett, Þá fór Þorgeirr til skips. Hann flutti Þá á skip allt fé [6]) sitt ok lét skipit liggia um ackéri ei allnær landi, ok vóru hans menn allir á skipi, Því at hann trúdi Þeim eigi til fullnadar, Þótt at gridin væri sett. Menn komu af landi ofan til fund-

1) Gulls réd. öll.
2) sá fari. öll.
3) öll tekr. 132. B.
4) búinn fridar ger. 132. manna: C.
5) fliótz. 132. 566. fridar nytia. C. nyta. 142.
6) skipveria sinna. öll.

ar vid Þá Þorgrím ok segia Þeim fall Gauts Sleitusonar, Því at Þorgeirr hafdi eigi sagt frá víginu. Ok, er Þórarinn Ofsi heyrdi Þessi tídindi, Þá heimti hann Þorgrím á tal vid sik, ok mællti sva: eigi munda ek grid hafa sellt Þorgeiri, ef ek hefda vitat víg Gauts vinar míns ok frænda. Nú villda ek vita, til hvers ek skal ætla um lidveitslu, Þar sem Þú ert, [1]) ef ek vil hefna Gauts. Þorgrímr svarar: eigi mun ek skiliast í Þessu máli vid Þik, enn torsóktligr sýnist mér Þorgeirr vera, Þar sem hann er hér kominn. Þórarinn mællti: vér skulum bera á land upp skrúd ok léreft ok adra gripi góda ok breida til Þerris, ok kann vera, at nockrir menn Þorgeirs fari at undrast, ok munum vér Þá drepa fyrst ok fætka sva lid Þeirra. Þorgrímr mællti: giörą máttu Þat, ef Þú vill. Þeir Þorgrímr ok Þórarinn höfdu ætlat til Grænlands ok áttu Þeir félag saman [2]) Einn gódan vedrdag báru Þeir á land upp skrúd ok léreft ok adra góda gripi ok breiddu vid Þerri. Þann dag fóru Þeir Kálfr ok Steinólfr XII á

1) Því ek vil. öll.
2) bædi skip ok ahöfn. bæta öll vid.

báti til lands eptir vatni, ok er Þeir sá varnínginn, Þá hlupu III menn af lidi Þeirra Þángat, sem varníngrinn var, ok Þegar er Þeir komu Þar, vóru Þeir drepnir. Eptir Þat fóru Þeir Þorgrímr ok Þórarinn med lidi sínu at Þeim [1]) Kálfi ok tóku Þá ok settu Þá i fiötra, enn drápu IV menn Þar hiá vatninu. Helgi Selseysta hió í fyrstu einn förunaut Þorgríms, ok eptir Þat lióp hann í brott. Menn runnu eptir hönum ok fengu eigi tekit hann. Helgi lióp it efra eptir fiöllum daga ok nætr ok nam eigi fyrr stadar enn á Þíngvelli ok sagdi Þeim Þórgilsi tídindi Þau, er gérst höfdu. Nú eptir Þessi víg tóku Þeir Þorgrímr upp skipsbátinn Þann, er Þeir Kálfr höfdu haft til lands ok fóru Þá til skipsins. Þorgeirr var á skipi ok Þeir [2]) átta saman ok vissi eigi Þau tídindi, er á landi höfdu giörzt, Því at leiti bar á milli Þar, sem vatnit var ok skipit. Vissi Þorgeirr eigi fyrr enn Þeir fluttu kaupskipit med tveimr bátum Þángat til skips hans allir herklæddir. Þeir Þorgeirr Þrífa vopn sín [3]). Þorgrímr ok Þórarinn

1) *ok Steinólfi.* öll.
2) IX. öll.
3) ok veriast drengiliga. öll.

flytia skip sitt at skipi Þorgeirs ok leggia bord vid bord. Tekst Þar hardr bardagi. Ná Þeir brátt uppgaungu, ok láta skamt stórra höggva á milli. Þorgeirr höggr tveim höndum med [1]) breidöxi, ok var lengi ádr enn Þeir kiæmi sári á hann fyrir Því, at engum Þótti gott at eiga gistíng undir exi hans, Þó hlutu Þat margir. Menn Þorgeirs féllu brátt, hlióp Þorgeirr Þá aptr í stafninn ok vardist Þadan, Því at vid mikinn lidsmun var at eiga, sem Þormódr orti um:

2. Strídr réd stafn at veria
[2]) streinghests taugum drengia,
[3]) ítr, Því at ár var heitinn,
[4]) audstióri Þrek, fiórum.
[5]) Ádr sigrreynir ~~sárum~~ sínum,
[6]) sár lutu medr at ~~vóru~~ hvaru
út vid eigi lítla,
[7]) errinn féll á knerri.

1) exinni. 132. 566.
2) strenghestataugum. 132. C. streng hreinstungum. 142.
3) eptir Þat. C.
4) audstyrir. 142.
5) sigreyrir. 132. sigrrennir. C. sigrægir sínum. 142.
6) sár lutu menn at hvaru. 142. sár lupu medan. C.
7) er menn féllu. C.

3. Ok enn kvad hann:

[1])Ként hefir fiör hve frændum
[2]) fólkbeitir skal veita,
[3]) dýrr Þó at drengi verri
[4]) dylgiusamr at fylgia.
[5]) Þreks frá ek þorgeirr ęiga,
Þau eru ord komin nordan
[6]) handargriót frá hreiti,
[7]) hug Þann, er vid mun brugdit.

Allir menn ágiætlu vörn hans Þeir, er vissu, hvörsu röskliga hann vardist, ok mælltu allir eitt um hans frœknleik, at menn Þóttust engan hans iafníngia fundit hafa. þorgeirr hió hart ok tídum af öruggum hug ok miklu afli [8]), (Því at meiri raun var at ráda at þorgeiri undir högg hans enn at lióni

1)Ként hefir fyrir fé. C.
2) fólkhneitir. 132. fólr hneyti skal. C.
3) dyrs þó at drengir verri. 142. dyr þó drengr veri. C.
4) dulgiusætt. 142.
5) þegns. 132.
6) handargrióts. öll. hneyti. C.
7) hug þeim. C.
8) ( ) vantár í öllum. ok var hönum hans hugr bædi fyrir skiöld ok bryniu. bæta öll vid.

Þá, er teknir eru frá henni hvelparnir, er hún Þá grímmust í sínu edli). Almáttigr er sá, er sva öruggt ok óhrætt hiarta gaf í bríóst Þorgeiri, ok eigi var hans hugprýdi af mönnum gér né hönum í bríóst borin, helldr af hinum hærsta höfudsmid. Nú reyndist Þeim Þorgrími ok Þórarni sva, at meiri mannraun væri at sækia Þorgeir, enn at klappa um maga konum sínum. Þá sóttist Þeim seint ok vard Þeim hann dýrkeyptr, Því at Þormódr hefir sva um ort, at Þorgeirr yrdi [1]) XIII manna bani, ádr hann væri veginn, enn II menn eru nefndir í Þorgeirsdrápu Þeir, er hann vó. Már hét austmadr enn annar Þórir, ok kom Már fyrstr banasári á Þorgeir. Hann hió á hönd Þorgeiri, ok, er hann hafdi Þat fengit, Þá hió hann Már banahögg, enn Þórir lagdi spióti ígégnum Þorgeirr, enn Þorgeirr géck á lagit ok hió hann banahögg. Um Þenna atburd kvad Þormódr:

[2]) Hauks frá ek hræfa læki
[3]) hardrædis Þraut bædi

1) XIIII. öll.
2) hauss 132. B. hvass. C. hræfa lækiar. 142. hræfalauka. 566. 3) handrædis 132. 566. — brædi. 142.

// vid sviprunna senna
[1]) sverd alldregi verda
Marr hét madr ok þórer
málsniallr er lét falla
[2]) ádr frágum þá þeirra
[3]) þorgeirs lokit eiru.
[4]) Olli fiörr ádr felli
[5]) flugtraudr hiarar dauda
[6]) sá var rækiandi enn ríki
reggis [7]) XIII seggia
[8]) þar lét ek hialldr fyrir haulldum
[9]) ~~hönum~~ hinn er þrek kann vinna
[10]) mál tiá mun at deilast
[11]) miúk víga til lúkast.

Nú er þórir var fallinn, spiótit stód ígégnum þorgeir, þá féll hann eigi, enn þá

1) sverds. öll.
2) ádr fræknum. C.
3) þorgeirr. öll.
4) allir fiörrád féllu. C.
5) fulltraudr. 142. flugbrádr farar. C.
6) enn ríki. C.
7) XIII. 132. B. XVI. 142. XIV. C.
8) þar lét hiallz fyrir. 132. C. þar er hialldrs. 142. þar lét ek hialldr. B.
9) hinn er. öll.
10) mín at. 142.
11) miúk til víga lúkust. 132. C. víga tillúkast. B.

var skamt stórra höggva á medal, Því at Þeir Þorgrímr ok Þórarinn stódu nær, ok unnu Þeir Þá á Þorgeiri, ok Þá féll Þorgeirr, ok lét líf sitt [1]).

Þórarinn hió höfudit af Þorgeiri, ok hafdi med sér á brott [2]). Sva segia menn, at Þeir kryfdi Þorgeir til hiarta, ok villdu siá hvílíkt hiarta hans var, sva hugprúds sem hann var. Enn menn segia sva, at hiartat var einkar lítit. Ok hafa Þat sumir menn fyrir satt, at minni sé hugprudra manna hiörtu enn [3]) huglausra; Því at menn kalla meira blód vera í miklu hiarta enn í lítlu; enn Þeir kalla hiartablódi hræzlu fylgia, ok segia menn Því detta hiarta í bríóstinu, at Þá hrærir hiartat blódit.

1) Hió Þorgrímr til Þorgeirs framan á bríóstit, ok risti á hönum kvidinn, sva út hlióp ístrin. Þorgeirr greip ístrina med görnunum, ok sleit úr sér, ok kastadi framan í Þorgrím Trölla, ok mællti: haf Þetta út á Grænland, ok fær Þat konu Þinni, ok lát géra úr syr. Syr var kalladr réttr á Grænlandi, er konur gérdu úr kàlfagörnum, segir sögumeistarinn. bætir. G. vid.

2) til ágiætis. 142. B.

3) blaudhugadra. 142. C.

## XXIII.

## Daudi Eyólfs ok Þorgeirs Hófleysa.

Eptir Þenna bardaga skilldu Þeir Þorgrímr ok Þórarinn félag sitt at bæn Þórarins, Því at Þórarinn Þóttist mikinn sigr unnit hafa. Vætti hann sér [1]) virdíngar hér á landi eptir sigrinn. Þorgrímr hafdi skip úr félagi, en Þórarinn lausafé. Hélt Þorgrímr til Grænlands, ok fórst hönum vel. Þórarinn afladi sér manna ok hrossa, ok reid nordan úr Hraunhöfn med XII mann. Hann hafdi höfut Þorgeirs í belg vid slágólar sér til ágiætis. Var Þat skémtan Þeirra at áfaungum, at Þeir tóku höfut úr belgnum, ok settu Þat á Þúfur upp ok hlógu at. Enn er Þeir komu í Eyafiörd, Þá ádu Þeir skamt frá naustum. Þeir tóku Þá enn höfut Þorgers, ok settu Þat upp á Þúfu, sem Þeir vóru vanir. Þeim sýndist Þá höfudist ógurligt, augun opin ok munnrinn, túngan úti; Þeim sýndist augun hrærast í höfdinu ok sva túngan. Vid Þá sýn urdu Þeir hræddir ok felmsfullir. Þeir grófu Þá [2]) gröf med öxum sín-

1) frammkvæmdar. 142.
2) díki. 142.

um hiá Þúfunni, ok brundu Þar í höfdinu, ok báru á ofan torf ok griót. Slettukarlar ruddu skipit líkum, ok fluttu líkin til lands, ok iördudu Þar í höfninni allra manna lík, Þeirra er Þar höfdu fallit, enn eigi nenntu Þeir til kirkiu at færa, Því at í Þann tíma vóru engar kirkiur nær Hraunhöfn. Kálfr ok Steinólfr vóru úr fiötrum leystir eptir bardagann [1]). Nú Þó at úng væri Kristni hér á landi í Þann tíd, Þá var Þó eigi vandi til at taka fé veginna manna.

Illugi fór Þat sumar utan nordr á Sléttu, ok Þat sama sumar fór utan Eyolfr í Olafsdal ok þorgeirr Hófleysa, fóstbródir hans, í Grímsárósi, ok Þat skip kom í ey Þá, er [2]) Lofot heitir [3]). þetta sumar eptir, er vetr var lidinn frá vígi þorgeirs, bió þórgils Arason mál á hendur þórarni Ofsa um víg þorgeirs ok Ari son hans ok mörgum mönnum ödrum, Þeim er at höfdu verit at víginu þorgeirs, ok gérdu mikinn reka at Þessum

1) ok ruddu þeir líka graptarins vid Sléttukarla. bæta 132. 566. vid.

2) Lafa. 132. B. Lafey. C. Ófotan. 142.

3) þenna vetr vóru þeir í Noregi Illugi Arason ok Kálfr ok Steinólfr. 142.

áverkum. Á þessi mál var sæzt á alþíngi, ok gérdi þórgils einn um öll málin. Gulldust þar á þínginu CC silfurs um víg þorgeirs, ok hafdi Gudmundr enn ríki annat hundrad at rádi þórgils Arasonar. þat sama sumar var þórarinn Ofsi vegin inn í Eyafirdi á mannamóti.

Á því sumri for Kálfr ok Steinólfr út til Íslands, ok komu út í Vadli á Bardaströnd, ok fóru heim til bús síns í Garpsdal.

Eyólfr ok þorgeirr Hófleysa keyptu skip í Noregi, ok helldu þeir því í haf þá, er þeir vóru búnir. þá velkti úti lengi, ok komu síd um haustit í [1]) Borgarfiörd, ok er þeir vóru þar komnir, skilldi þá á um landtökuna: villdi Eyólfr hallda skipinu til Straumfiardar, því at þángat var byr, enn þorgeirr villdi [2]) hallda til Dagurdarness. þá var gengit til siglu ok eptirleitat, hvörir fleiri væri skipveriar þeir, er sigla villdi, edr í rétt leggia. Enn fyrir því at mönnum hafdi leidzt í hafinu, þá vóru þeir fleiri, er sigla villdu til lands. þeir fóstbrædur vóru

1) þorgeirsfiörd. C.
2) leggia í rétt ok vita, ef byr giæfi fyrir Jökul. öll.

sva reidir, at Þeir tóku til vopna, enn menn giættu sva til, at eigi vard at. Tóku Þeir Straumfiörd, ok Þegar skipit var landfast vordit, Þá féck Þorgeirr sér hest, rídr hann frá, ok Þar til er hann kom í Garpsdal, tók sér vist med Þeim brædrum. Eyólfr var vid skip Þar til upp var sett ok um búit. Fór hann Þá heim vestr í Olafsdal til módur sinnar, ok var med henni um vetrinn. Spákérlíng, er fyrr var frásagt, tók sótt [1]) ok andadist næstu nótt eptir Pálmadag. Lík hennar var flutt á skipi út á Reykianes, Því at engi var kirkia nær Olafsdal enn sú, er á Hólum var. Eyólfr ok húskarlar hans fluttu lík spákérlíngar til kirkiu, ok er líkit var nidrsett, vestnadi vedrit, ok gérdi á [2]) hafvidri ok frostvidri. Lagdi fiördinn lángt út Gilsfiörd, ok mátti eigi skipinu fara inn til dalsins Olafsdals. Þórgils mællti til Eyólfs: Þat sýnist mér rád, at Þú sér hér til Þess, er lídr Páskavika, mun ek Þá fá Þér menn at fara med skip Þitt, ef Þá má komast fyrir ísum, enn ef Þá er eigi fært, Þá mun ek fá

1) ok lá lengi í reckiu, bæta öll vid.
2) kófvidri. öll.

Þér hest heim at rída, en ef naudsyn berr til, Þá megu húskarlar Þínir fara heim fyrr enn Þú. Eyólfr svarar: Þetta mun ek Þiggia. Nú fóru huskarlar heim. Fimta dag í Páskaviku segir Eyólfr, at hann villdi heim fara. Þá lét Þórgils búa hönum hest [1]) til farar, ok baud hönum mann til föruneytis. Hann sagdist einsaman rída vilia. Nú rídr hann utan af Reykianesi ok inn um Berufiörd ok Króksfiörd, ok er hann átti skamt til Garpsdals, Þá vóru Þeir Kálfr ok Steinólfr úti staddir undir einum húsvegg, ok hiöludust vid. Þá géta Þeir at líta, hvar menn gánga utan eptir vellinum vopnadir, eigi allfáir. Þeir töldu mennina, ok vóru IX saman. Ok er Þeir nálgudust húsin, Þá snéru Þeir framm fyrir húsin. Þeir Þyckiast kénna mennina, ok sýnist Þeim Þar vera Þorgeirr Hávardsson ok Þeir átta, er féllu med hönum á skipinu. Þeir vóru allir alblódugir. Þeir gengu úr gardinum. ok er Þeir komu at á einni, er fellr fyrir innan bæinu, Þá hurfu Þeir. Þeim brædrum vard [2]) ósvipt vid Þessa sýn. Gánga

1) skúadan. öll.
2) undarligt. 142.

þeir inn í skála [1]) (ok setiast nidr ok sortnar um Þá).

Önundr hét madr, er giætti nauta í Garpsdal. Hann géck úr fiósi, er Þeir vóru innkomnir brædur. Hann sér, hvar madr rídr utan eptir vellinum allvænligum hesti. Sá madr var girdr sverdi, ok hafdi spiót í hendi ok hiálm á höfdi. Ok er hann nálgast húsin, Þá kénnir hann mannin, ok er Þar Eyólfr. Önundr gengr í stofu [2]), Þar var þorgeirr Hófleysa ok konur nockrar. Önundr tók til orda: nú rídr Eyólfr hér um tún. Ok er þorgeirr heyrdi Þessa sögu, Þá lióp hann upp, ok tekr spiót í hönd sér, gengr út. Eyólfr var Þá kominn á innanverdan völlinn. þorgeirr lióp eptir hönum, enn Eyólfr reid leid sína, ok sér eigi, at madrinn fór eptir hönum, ok er hann kémr at ánni, Þá var hún uppgengin, ok leitadist hann fyrir. þorgeirr kalladi Þá, ok mællti, at hann skylldi bída, ef hann Þyrdi. Eyólfr heyrdi kallit, ok lítr til, ok sér, hvar þorgeirr rennr [3]), hleypr af baki, ok rennr

1) vantar í 132. 566.
2) ok er þar fátt manna, bæta öll vid.
3) hér lykr No. 132.

í mót hönum, ok er þeir finnast, Þá leggr hverr Þeirra spióti ígégnum annan, ok létu iafnsnemma lifit. Nú kom Þat framm, er spákérlíngin hafdi Þeim fyrirsagt. þeir brædur gánga til stofu, Þá er af Þeim leid ómegnit. þeir spyria, hvar þorgeirr væri? ok er sagt, at hann sé út genginn, ok hafdi tekit spiót í hönd sér: Þá er Önundr sagdi för Eyólfs. þeir brædur gánga út snúdugt, ok inn úr gardi til árinnar, ok vóru Þeir Þá nýfallnir, enn eigi örendir. Sátu Þeir brædur yfir Þeim, til Þess er Þeir vóru bádir daudir, ok færdu lík Þeirra til kirkiu. þormódr Kolbrúnarskálld spyrr nú öll Þessi tídindi, ok Þóttu mikil.

## XXIV.

## Frá Þormódi.

Prýdimadr mikill var þormódr Kolbrúnarskálld, ok vel at íÞróttum búinn, skálld gott, medalmadr á vöxt, allra manna snarastr. Hann undi nær engu eptir andlát þorgeirs fóstbródur síns, ok Þat sama sumar, sem hann var veginn, fór þormódr utan vestr í Vadli, ok er ecki sagt fra ferdum

Þeirra fyrr en Þeir komu framm í Danmörk. Þá réd Þar fyrir Knútr enn ríki, ok var hönum sagt frá Þormódi, at hann væri mikit afbragd annarra manna, bædi sakir hreysti ok kappgirni ok sva skálldskapar, ok sendir kóngr eptir hönum, ok bad hann koma á sinn fund. Þormódr bregst skiótt vid, ok ferr at hitta kóng, ok gengr fyrir hann, ok kvedr hann ágiætliga, enn kóngr fagnar vel Þormódi, ok býdr hönum Þegar til sín, ok ferr Þat ord frá Þér, segir kóngr, at Þú sér vel fallinn at vera í kóngshird ok Þióna tígnum mönnum. Þormódr svarar: Þat er mér eigi fellt, herra, fyrir Því, at ek er eigi tilfærr at setiast í rúm höfudskallda slíkra, sem med ydr hafa verit, ok er ek ecki reyndr at Því at yrkia um Þvílíka höfdíngia, sem Þer erut. Kóngr mællti: Þetta vilium vér, at Þú kiósir af at vera med os. Þá svarar Þormódr: herra, varla er os Þetta fallit, Því at vér erum illa stilltir, ok kann vera, at vér fám eigi tilgiætt, ok Þykir mér illt, ef ek hrata hér í ófagnat fyrir sakir skaplyndis míns, Því at opt nenni ek lítt at géra í móti skapi mínu, enn Þó vill ek ydr Þess bidia, at Þér kunnit

mik eigi Þess, er ek mun mæla: Þat verdr stundum mællt af sumum mönnum, at eigi hafi géfizt at fullu Þeim mönnum, er med ydr hafa verit. Kóngr mællti: var med os þórarinn Loftúnga. þormódr svarar: satt er Þat, herra, en var Þó stundum um hríd, at eigi Þótti Þat ólíkara, at þórarinn bæri sik eigi heilan á brott, enn ydr mun Þó svá reynast, at ek er miklu verra skálld enn þórarinn. Kóngr mællti: miök verdu vér eptir at leita vid Þik, ok má Þat géra um stundar sakir, enn Þó má Þat á finna, at vér villdim Þína Þiónustu hafa. Gud Þacki ydr Þat, herra, segir þormódr, enn Þó verdum vér at ætla hóf fyrir oss, Þótt vér vítim Þat, at ydr er merkiligast at Þióna. Nú man ek Þat sýna, segir Kóngr, sem ek gat ádr, at helldr enn eigi færir Þú til mín, ok mun ek géfa Þér Þvílikan mála, sem þórarinn hafdi, enn Þat var mörk gulls. Herra, segir þormódr, ef vér tökum Þenna kost, Þá Þurfum vér miök Þinnar umstilli ok umsiár, Því at ek er i raun lítt stilltr, sem ek sagda ydr. þormódr tekr nú Þetta af, at hann ferr til hirdvistar med Knúti kóngi,

ok er hann Þar um hríd ok vel virdr. Hann skémtar opt kóngi, ok er Þat frásagt, at hann skémti allra manna best, ok opt kvædi hann vísur um Þat, er vidbar. Kóngi hugnadi hann vel, ok verdr Þó eigi meira um enn hann hugdi til. Lídr nú sumarit.

## XXV.

## Þormódr gérdist stafnbúi Háreks.

Um vetrinn er Þat sagt, at madr sá kémr til hirdarinnar, er Hárekr heitir. Hönum er sva farit, at hann er víkíngr mikill ok illgérdamadr, enn hann er Þó vinr Knúts Kóngs. Færdi hann hönum iafnan herfáng mikit ok gérsemar margar, ok virdi Kóngr hann mikils. Sva er sagt, at kóngr fréttir nú Hárek at, hversu hönum hefir farit um sumarit? enn hann segir, at eigi hafi nú vel farizt, kvezt látit hafa stafnbúa sinn, ok vil ek Þess bidia ydr, herra, at Þér fáit mér stafnbúa annan, ok er Þó vanfengit í stad hans at Því, er mér Þyckir, Því at hann var opt gódr tiltaks um ord, ef svara Þurfti, hvört sem skylldi skattyrdast

edr leitá lofgiarnligra orda. Kóngrinn íhugar Þetta mál, ok kvezt Þó vilia bióda hönum til sín, ef hann villdi Þat, ok hætti hann hernadi, ok kvad sér Þat sýnast vænligt, at hann gérdi sva. Enn Hárekr lézt enn vilia hafa hina sömu idn. Þar er hann um vetrinn med kóngi. Hann er vel vid Þormód, ok giördi meir at athvarfi vid hann. Hárekr vekr til miök opt vid kónginn um stafnbúann, at hann skuli fá hönum, enn kóngr slítr eigi úr Því sva brátt.

Þormódr verdr eigi fyrir öfund af mönnum, sem opt kann verda vid Þá menn, sem nýkomnir er til hirdar ok virdir vel. Enn Þar kémr um málit Háreks, at hann segir hönum, at hann kýs Þormód til stafnbúa sér. Kóngr mælir ei Því á móti, ef Þormódr villdi ok var nú Þess leitat vid hann, ok tók hann Því ófliótt helldr, ok kom Þat loks, at kóngr siálfr rædir um vid hann, vill, at Þormódr rédist til med Háreki. Þormódr svarar: Þat er mér nú skapfelldast at vera med ydr, herra, ok er mér siá alls ókunnr hann Hárekr. Kóngr bidr nú Þormód til, ok segir hann hafa muni í móti vingan sína, ef hann

gèrir nú Þetta súmarlángt fyrir ord sín. Þormódr svarar: helldr villda ek nú, herra, med ydr vera, enn Þó fyrir Því, at Þér beidit Þessa, Þá vil ek eigi Þessu afsvör veita med öllu, enn skilia vil ek noekut í málit, ef ek rádumst í Þessa ferd med Háreki, Þá vil ek ráda, hvar í hafnir skal leggia edr brott skal leggia. Kóngr iátar Þessu, ok segir sva vera skulu, sem hann beidir. Ok nú er kémr at Þeirri stundu, er Þeir Hárekr ok Þormódr skulu brottu fara frá hirdinni, Þá koma eigi framm giafir Þær af kóngs hendi vid Þormód, sem hönum Þótti sér heitit hafa verit. Ok eru Þeir kóngr nú bádir saman staddir, Þá Þyckir Þormódi rádligt vera munu at minna kónginn á med nockuru móti, ok kvad hann Þá vísu Þessa:

Loftúngu gaftu lengi
látr Þat er Fafnir átti
Þú létz mér en mæri
merer fran oluns vonir.
Verdr em ek varga myrdir
viÞlanz frá Þér síÞan
edr helldr um siá sialldan
slíks rettar skal ek vetta.

Ol. p. 44

Kóngr dregr Þegar gullhríng af hendi sér, er stód hálfa mörk, ok gaf þormódi. Haf nú mikla Þöck fyrir, herra, segir þormódr, enn fyrirkunnit oss eigi vorrar frammgirni, Þótt ek mæla um Þetta enn nockru framar: Þat töludu Þér, herra, at ek skyllda mörk gulls Þiggia af ydr í málagiöf. Kóngr svarar: Þat er satt, skálld, er Þú mælir, ok skal Þat ok eigi afdraga. Tekr kóngr nú hríng annan ok géfr hönnm, ok er hann tók vid Þessnm hríngnum, Þá kvad hann vísu Þessa:

Flest of sér hve fasta
fagrbúnar hefi ek túna
bádar hendur úr breidum
bardz Þiód kóngs gardi
elld á ek iöfri giallda
úngr Þeim er bregdr húngri
diúps ber ek gull á greipum
grádugs ára bádum.

Nú skiliast Þeir Knútr kóngr.

## XXVI.

## Þormódr kémr til Olafs kóngs.

þormódr rædst nú til skips med Háreki, ok gérdist stafnbúi hans, ok fara Þeir um

sumarit, ok Þyckir Þeim vera gódr tiltaks bædi um ord ok atgaungu, ok líkar Þeim vid hann einkar vel. Þat er sagt eitthvört sinn at álidnu sumri, at Þeir leggia skip sín í lagi síd um optan hiá ey nockurri, ok Þat siá Þeir, at renna framm hiá Þeim skip nockur, ok var Þat dreki, er fyrst fór, ok allvegligt skip. Ok er drekann bar framm hiá skipinu, Því er Þormódr var á, Þá kalladi madr af drekanum: úr hart, úr kóngshöfninni, segir sá. Þeir vilia Þegar bregda tiölldunum, ok láta úr höfninni, ok er Þormódr sér Þat, Þá bad hann hvörgi brott leggia, ok minnist nú á, segir hann, hvat mællt var med oss, at ek skyllda slíku ráda. Þeir svörudu félagar hans, bidia hann eigi verda sva ódan, ok hefir Þú mátt Þessu enn hér til fyrir oss, ok enn kann vera, at sva sé Drekinn brunar nú framm at skipi Þeirra Þormóds, ok gengr nær, ok Þyckir Þeim, er á drekanum eru, seint vidlátit at leggia úr höfninni. Þat er sagt, at stafnbúinn á drekanum stendr upp, ok bregdr sverdi, ok höggr til Þormóds, enn hann lætr á sik hallt verda, ok höggr í móti til Þess mannsins, ok berr sva til, at

sá lézt, enn þormód sakadi ecki. Ok hleypr þormódr af skipi sínu ok upp á drekann, ok hefir skiölldinn fyrir sér, ok aptr eptir skipinu allt til lyptíngar. Enn vid Þetta alltsaman vard kall á skipinu, ok fréttist nú, hvat tídinda er. Ok er þormódr Því næst höndladr, enn víkíngar leggia Því næst brott, ok hirda ecki um þormód, hvat af hönum verdr. Enn drekanum stýrir Olafr kóngr, ok er hönum sagt, hvat í hefir giörzt, ok sva, at vegandinn er handtekinn, ok bidr hann láta drepa hann, ok kallar hann Þess verdan vera. Ok er Finnr Arnason heyrir Þetta, er kóngr mællti, Þá gengr hann til, ok vill vita, hverr madrinn sé, sá er vegit hefir stafnbúann, ok mællti, er Þeir fundust: fyrir hví vartu sva diarfr, madr, at Þú treystist at hlaupa á kóngskipit, slíkt sem Þú hafdir ádr unnit? þormódr svarar: Þat kom til Þess, segir hann, at ek hirda ecki um lífit, ef ek kæmunst á valld kóngsins. Nú segir Finnr Þetta Sigurdi biskupi, ok bidr hann veita sér orda fulltíng vid kónginn, ok bidia manninum fridar, ok ræda um med sér, ok sýnist Þeim, sem hönum hafi

hvatliga ordit allt iafnsaman, ok bidia Þeir nú kóng, at hann skuli géfa hönum grid, ok fara um Þat mörgum ordum. Kóngr spurdi: hví hann kæmi á hans valld, Þar sem hann var ádr á ödru skipi, sva illa sem hann hafdi sína sök tilbúit? Þormódr heyrdi Þetta siálfr, ok svarar kóngi med vísu Þessari:

Hafa Þóttunst ek heitins
happs sækiandi ef tækir
hlins ríki halldi mínu
hvert land Þegit branda
ríkr vil ek med Þér rækir
rannda lindz hiá svinna
rönd berum út á andra
eybaugs lifa ok deya.

Já, segir kóngr, audsætt er Þat á Þessi tiltekiu, at Þú hirdir lítt um lífit, ef Þú kémr Því framm, sem Þú villdir, enn hygg ek, at Þú verir Þat rúm, er Þér er í skipat, edr hvert er nafn Þitt? Þormódr segir til sín, ok er ek fóstbródir Þorgeirs Hávardssonar. Kóngr mællti: meiri giæfumadr skylldir Þú vera, enn Þorgeirr var, enn hitt er mér sýnt, at Þú munt lagdr til óhappanna,

Því at mér sýnist Þú únglígr edr hvörsu mörg hefir Þú vígin vegit? Þormódr kvad Þá vísu:

2. Sex hefig allz [1]) sízst uxu  Ol. p. 66.
[2]) ån hiallta ty fionir
kéndrer ek vid styr stundum
stálregns boda vegna
[3]) Þá em ek enn at mun manna  ok man k
mordz varliga ordin  morð
vér létum Þó Þeirra
Þritogr skarar bita.

Kóngr mællti: Þörf væri, at Þú bidir eigi adra XXX vetr, enn Þó er skadi at slíkum manni, Því at Þú munt vera skálld mikit. Þormódr svarar: Þat mun nú miök á ydru valldi, hversu gamall ek skal verda, enn góds væntir ek at ydr fyrir sakir vinar Þíns Þorgeirs Hávarssonar, fóstbródur míns. Fór ek ok Því mest af Íslandi, at ek Þóttunst vita, at Þú mundir vilia láta hefna hirdmanns Þíns ok vinar Þorgeirs Hávarssonar, enn ek vissa mik skylldastan til at hefna hans med ydvarri umsiá. Kóngr mællti: Þiggia muntu

1) sídan uxum. 142. A.
2) en. 142. úr hiallta mér fiórir. A.
3) Þó em ek oc. 142. A.

höfut Þitt, allz Þú ert á minn fund kominn. Vil ek, at Þú leitir fyrir Þér, hvört er Þú vill, fyrir mér. Þormódr svarar: sú lífgiöf kémr mér fyrir lítit, Því at mér er ókunnigt um Noreg, enn ek vil eigi leita til annarra kónga, enn Þín. Nú gér Þâ annathvert: tak vid mér, edr lát mik drepa ella. Ok nú vid árnun biskups ok Finns ok hins annars, er kóngi féllst vel í Þocka til Þormódar, Þá mællti Kóngr: statt upp, Þú Þormódr, nú muntu verda at giallda mér til Þiónustu siálfan Þik fyrir Þann mann minn, er Þú vótt, ertu vel tilfallin at fara sendiferdir mínar. Þá kvad Þormódr vísu:

Þarf sá, er Þér skal hvarfa
1) Þengill fyrir kné lengi
svaradu hogliga hveriu
2) hugbord kóngr ordi
3) fáir eru vér né frýiu
4) frændr voru Þá vændir

1) Þengils fyrir kné mengi. C.
2) hugbords. 132. 142. A. B. haugborda. C.
3) né freyia 132. 142. A. B. fáir er menn vér freyia C.
4) frændr vórum vér vændir. 132. G. vor Þò vændir. 142. A. frændum erum vér ıændir. C.

c. 26.



[1]) minnunst ek meirr á annat mitt starf [2]) kóngr diarfr.

Kóngr svarar: gaman mun vera at skálldskap Þínum, ok eigi ætla ek, at Þú munir verda til lykta ógiæfumadr.

Þormódr var nú med kóngi, ok var hönum Því betr til hans, sem hann hafdi lengr verit, Því at kóngi reyndist hann hinn röskvasti madr í öllum mannraunum [3]).

1) meirr enn annat B. C.

2) kóng diarfann 132. 142. B. kóngr A. kóngi árnat C.

3) Kap. XXIV XXI ok XXVI. vanta í öllum, enn 142 ok A. hafa hér:

Nú skal segia frá Þormódi, at hann undi lítt eptir víg Þorgeirs fóstbródur síns, ok Þótti eigi vænt til hefnda. Tekr sér far um sumarit, ok fór utan med Þeim manni, er Hárekr hét. Þeir tóku eyar nockrar, ok lágu Þar um stund. Þat var einn dag, at til eyanna sigldu skip nockur, ok lögdu allnær kaupskipinu. Var Þar kominn Olafr kóngr, ok hafdi komit austan úr Vík. Menn fóru af skipi kóngs ok á kaupskipit, ok spurdu tídinda, edr hvat Islenzkra manna Þar væri á skipi Þeirra, er kóngi ætti landaura at giallda? Hárekr segir, at Þar var madr Islenzkr, er eigi hafdi fyrr komit til Noregs, ok vísadi til Þormódar. Þormódr sat á kistu einni, er stód hiá húdfati hans, ok hafdi öxi eina í hendi. Kóngs menn viku til hans, ok spurdi einn: hverr hann væri? Hann sagdist vera Islenzkr ok heita Þormódr. Þú munt fá mér í hendur landaura Þá, er Þú átt kóngi at lúka. Þormódr svarar: eigi mun ek Þér lúka nockura landaura, enn kóngr mun hafa hvat er hann vill, Þá er ek kém fyrir hann. Þú skalt lúka víst fyrri, segir hann. Lúka, ef ek vil, segir Þormódr, ok eigi

## XXVII.

## För Þormóds til Grænlands.

Þat sama haust er Þormódr Kolbrúnarskalld kom til Olafs kóngs, kom skip af Grænlandi til Noregs. Því skipi stýrdi sá madr, er Skúfr hét. Hann var Grænlenzkr madr at ætt, farmadr mikill, vitr madr ok vin-

Þér. Brigda vadmàl lá í húdfati Þormódar. Siá tók vadmálit, ok mællti: Þetta mun ek hafa fyrir landaura skulldina, ok snéri í brott. Þormódr stód upp Þegar, ok hió í höfut hönum, sva at kóngsmadr dó Þegar. Snyr Þormódr Þegar í brott, enn menn villdu at hönum ok grípa hann.

Þormódr lét berast at víginu, ok hióp af Því á kóngs skip, ok gengr aptr í lyptíngina, ok féll til fóta kóngi, ok mællti: verí allt á Guds valldi ok ydru, herra, segir hann. Kóngr mællti: Því ferr madr Þessi sva, edr hverr er hann? Þá koma menn ok segia kóngi vígit *). Kóngr mællti, hvert er nafn Þitt? Þormódr heití ek. Kóngr mællti: vartu svarabrodir Þorgeirs Hávarssonar? iá, segir hann. Kóngr mællti, ertu kalladr Kolbrúnarskálld? sva er víst, herra, segir hann. Kóngr mællti: nióta skaltu hans at Því, at Þu skallt Þiggia líf, med Því at Þú komst Þó á minn fund, enn Þat skalltu vita, at miök Þycki mér misbodit í drápi hans, ok Þöck kynna ek Þér, ef Þú villdir hefna hans, ok ver med oss velkominn. Þormódr kvad Þá vísu:

Þarf sá er Þér skal hvarfa o. s. fr.

(Kóngr mællti: Þú skallt taka nafnbót Þá, sem hast hefir Giafalldi ok starfa) o. s. fr. 142. A.

*) Þormódr Kolbrúnarskálld fór á fund Olafs kóngs ens helga. Þormódr kvaddi kónginn. Kóngr mællti o. s. fr. 132. B. C.

sæll, vinr mikill Olafs kóngs, ok [1]) var hönum handgenginn. Skúfr fór til hirdar med Olafi kóngi. Þeir Þormódr ok Skúfr lögdu saman lag sitt, ok var med Þeim allvingott. Um vorit eptir bió Skúfr skip sitt út til Grænlands. Þormódr gengr Þa fyrir kóng ok mælti: Þat villda ek, köngr, at Þú lofadir mér at fara til Grænlands í sumar med Skúfi Grænlendíngi. Kóngr svarar: hvört er eyrindi Þitt Þángat, hvört ætlar Þú at hefna Þorgeirs svarabródurs Þíns? Þormódr svarar: eigi veit ek, hvörs audit vill verda um Þat. Kóngr mællti: eigi vil ek banna Þér förina, Því at ek Þyckiunst vita, hvat er Þú vill. Nú skilia Þeir at sva mæltu. Þormódr tók sér far med Skúfi, ok er Þeir vóru miök bunir, Þa fara Þeir á fund kóngs, ok Þacka hönum alla vingan, Þa er hann hafdi Þeim veitt. Kóngr bad Þá vel fara. Kóngr gaf Þormódi hríng [2]) ok sverd, Þá er Þeir skilldust. Gánga Þeir nú til skips, ok er Þeir gengu á skip, ok settust nidr, Þá

1) hirdmadr. 142. A. C.
2) enn Skúfi sverd 142.

géck madr útá [1]) skipit á skutbryggiū sá var mikill vexti, herdabreidr, ok Þyckr [2]) undir hendina. Hann hafdi sídan hatt á höfdi, ok máttu Þeir ógiörla siá hans ásiónu [3]), enn Þat, er Þeir máttu af siá, syndist Þeim skolbrúnn, skéggiadr ok[4]) garpligr í ásiónu. Sá madr géck fyrir Skúf ok kvaddi hann. Skúfr tók vel kvediu hans, ok spurdi hann at nafni, enn hann nefndist Géstr. Skúfr mællti. hvar er kyn Þitt? hann svarar: vída stendr kyn mitt fótum, enn Þat er eyrindi mitt híngat, at ek vil, at Þér veitit mér far í sumar til Grænlands. Skúfr svarar: ókunnigr madr ertu mér, ok vil ek vita vid skipveria mína, hvat Þeim sýnist rád, hvört ek taki vid Þér edr eigi. Géstr mællti: eigi veit ek, enn Þat ætladi ek, at stýrimenn ætti fyrir skipi at ráda, enn eigi hásetar, ok er Þat líkligast, at ek vinna hlutverk mitt at mínu leyti, sva at eigi Þurfi hásetar fyrir mik at [5]) vinna. Nú lauk sva Þeirra vidrædu,

1) skipsbryggiuna. B. C. skipit 142.
2) vantar í öllum.
3) vanter i B. C.
4) grepligr í bragdi 142.
5) ausa. 142. A.

at Skúfr hét Gésti farinu. Géstr géck upp í bæinn, ok kémr aptr med mikla byrdi ok Þúnga, sva at varla máttu tveir menn upptaka[1]). Skúfr lét Þá í haf, Þeir fengu hörd vedr ok hvöss[2]); Þess lidbetri var Géstr, sem meiri var raun til. Sva sýndist Þeim, sem Géstr mundi hafa tveggia manna afl í sínum tiltökum. Helldr stódst allt[3]) í odda med Þeim þormódi ok Gésti í Því, sem vidbar. Sva barst at einn dag, at þermódr ok Géstr áttu austrmál at hallda bádir. Í Þann tíd var byttuaustr hafdr á skipum, enn eigí dæluaustr. Nú var þormódr í[4]) kíli nidri, ok söckti byttunum, enn Gestr tók vid uppi á Þilium, ok bar út austrinn. þormódr var eigi sterkr madr, ok selldi hann opt eigi lángt upp bytturnar, ok vard Géstr at seilast miök í mót byttunum, ádr hann fengi nád Þeim. Géstr mællti Þa: sel Þú upp, auvirdit, knáligar bytturnar. þormódr svarar engu, enn gérdi sem ádr. Nú er minstar

1) Géstr tók sér rúm aptr á búlkabrún ok átti fátt vid adra menn 142. A. ok lét fátt til sín taka B. C.
2) ok stór áföll C. mörg föll. B.
3) hér lykr No. 566. B.
4) kiölnum. C.

vonir vóru, Þá lætr Géstr fallast ofan bytturnar fullar af sió í fáng þormódi. þormódr verdr allr alvotr, ok hleypr upp úr austrinum, ok Þrífr vopn sín. Géstr tekr ok Þá sín vopn, vilia Þeir Þá beriast. Skúfr bidr Þá menn standa í millum Þeirra. Eru Þeir Þá skilldir. Skúfr mællti Þá: eigi sæmir, at menn sé ósáttir á skipum, Því at ósættinni fylgir mart til meins, ok sialldan mun skipum vel farast, er menn eru ósáttir innan bords. Nú vilium vér bidia yckr, at Þid sýnit önga [1]) óvisu, medan Þid erut á skipinu, enn giörit, sem yckr líkar, Þá er Þid komit á land. Nú sefast Þeir af ordum Skúfs, ok eru nú grid sett á millum Þeirra. Skip Þetta velkir úti lengi, ok fá Þeir stór áföll. Í einum miklum stormi gengr í sundr seglrá Þeirra. Fór Þá utan bords allt seglit, ok taka menn seglit, ok heimta at sér, ok vóru Gésts tiltök sterkligust. Skúfr [2]) segir, at Þeir menn vóru lítt hagir, er farit höfdu af Grænlandi med hönum, enn hann hafdi sét Þá Gést ok þormód mart hagliga telgia. Skúfr

1) óvissu. A. lysa ei tvisti C.
2) vissi. öll.

mællti Þá vid Gést: vill Þú géra saman rá vora? Géstr svarer: lítt er ek hagr, bidtu þormód, hann er sva ordahagr, at hann mun Þegar yrkia saman rána, sva at föst mun vera, sem negld sé. Skúfr mællti Þá vid þormód: villtu géra saman rá vora? hann svarar: fá Þú Gésti, hann er madr sva sterkr, at hann mun stínga saman hlutunum, sva at fast mun vera. Enn Þó má ek freysta at telgia annan hlutinn, ef Géstr telgir annan. Nú er fengin sín öxi hvörum Þeirra, ok telgir sinn rárlut hverr Þeirra. Géstr lítr nockut sva til Þar er þormódr er. Enn Þá er þormódr hafdi telgt sinn lut rárinnar, Þá sezt hann nidr á [1]) búnkann, enn Géstr telgir nockuru lengr Þat tré, er hann var at. Ok er hann hætti at telgia, Þá bar hann saman lutina, ok Þurfti Þá af hverigum at taka hlutnum. Nú festir Géstr saman rána, ok eptir Þat festa Þeir seglit vid rána [2]), ok Því næst sigla Þeir. Síd um haustit tóku Þeir Grænland. Skipit kom í Eiríksfiörd, ok skipudu Þar upp.

1) búlkann: öll.

2) vinda sidan vid hún. C.

## XXVIII.

## Þormódr tekr sér vist med Þorkéli Leifssyni.

þorkéll Leifsson [1]) bió í Brattahlíd. Hann var höfdíngi mikill, ríkr ok vinsæll. Hann var vinr ens helga Olafs kóngs. þorkéll kom brátt til skips, ok keypti at styrimönnum ok hásetum Þá luti, er hann villdi hafa. Hann keypti mölll Þau, sem Þar vóru til ok adra luti, Þá er torgiætastir vóru a Grænlandi. Skúfr gérdi þorkéli í kunnleika, at hirdmadr ok skálld Olafs kóngs var á skipinu, er þormódr hét, ok segir, at Olafr kóngr sendi hönum hann til hallds ok trausts, ef hann Þyrfti nockurs vid. Nú af Þessum ordum Skúfs Þá baud þorkéll þormódi til sín, ok Þat Þecktist þormódr. Skúfr var vid skip Þár til er Þat var uppsett ok umbuit. Eptir Þat rédst hann heim til bús síns. Hann átti bú á Þeim bæ, er á Stockanesi heitir. þat er í Eiriksfirdi ödrumegin fiardar, enn Brattahlid ödrumegin. Vid Skúf bió sá madr, er Bíarni hét. Hann var vitr madr, vin-

1) Eiríks sonar. öll hins Bauda. C. var fyrir Eiríksfirdi. A.

sæll, vel gérr at sér [1]) ok smidr mikill. Hann vardveitti bú Þeirra Skúfs beggia, Þá er Skúfr var í förum. Þeir áttu félag saman, ok fór vel med Þeim félag. Þormódr fór til vistar í Brattahlíd til Þorkéls Leifssonar. Géstr vistadist í [2]) Eiriksfirdi á bæ Þeim, er í Vík heitir. Þar bió sá madr, er Grímr er nefndr. Þorgrímr Trölli Einarsson bió í Einarsfirdi á bæ Þeim, er á Laungunesi heitir. Þorgrímr var godordsmadr ok mikill höfdíngi, ríkr ok fiölmennr, garpr hinn mesti í skaplyndi. Vid Þorgrím bió systir hans, er Þórdís hét. Hana hafdi átt sá madr, er Hámundr hét. Sýnir Þórdísar vóru IIII á vist med henni. Einn Þeirra hét Bödvarr, annarr Falgeirr, Þridi Þorkéll, fiórdi Þórdr. Þeir vóru allir [3]) garpar miklir ok fráligir menn. Þórun hét önnur systir Þorgríms. Hún bió í Einarsfirdi á bæ Þeim, er á Lánganesi hét. Hún átti son, er Liótr hét. Hann var mikill madr vexti ok [4]) rammr

1) á alla luti. C. flesta. A.
2) Einarsfirdi. öll.
3) vantar i 142.
4) knáligr. 142. A.

at afli. Allir frændur þorgríms vóru miklir hávadamenn ok óiafnadarmenn. Sigrídr hét kona, er bió í Einarsfirdi á Þeim bæ, er á Hamri heitir. Sigrídr átti gott bú, enn var Þá eigi stóraudig [1]) (enn velaudig at vinsælldum) Sigurdr hét son hennar. Hann var fróligr madr ok vinsæll [2]) ok lítill hávadamadr [3]).

## XXIX.

## Frá Lodni ok Sigrídi.

Lodinn hét madr. Hann var verkstióri þorkéls í Brattahlíd. Hann var gódr verkmadr, ok veidimadr mikill. Hönum fylgdi at lagi kona, sú er Sigrídr hét. Hún var fengin til at vinna þormódi. Skémma var í Brattahlíd úti eigi [4]) áföst húsum, er þorkéll var vanr at sofa í ok setumenn hans. þar brann liós hveria nátt í skémmunni um vetrinn. Lodinn svaf inn í skála hiá verkmönnum þorkéls. Lodni Þótti Sigrídi opt verda dvalsamt á kvelldum í skémmunni, er

1) vantar í 142. A.
2) ei hávadamadr. C.
3) Þótti þó ei allavegu iafnt. 142. A.
4) allnær. A.

hún togadi af þormódi. þótti hönum Sigrídr gá sín minnr, enn verit hafdi. Kom hönum í hug kvidlíngr sá, er kvedinn er um lausúngarkonur:

*) á hverfanda hveli
[1]) eru Þeim hiörtu scöput
ok brigd í briást um lagin.

rædir hann Þá um vid hana, at hann vill eigi vistir hennar lángar á kvelldum í skémmunni. Hún svarar hönum Þann veg, sem henni var skapi til[2]), Þyckir hönum hún leggia sialldnar hendur um háls sér, enn verit hafdi. Lyptist Þeim Þá lítt reidi í sínu rúmi. Enn reidi hvers manns er í galli, enn líf í hiarta, minni í heila, metnadr í lúngum, hlátr í millti [3]), lystisemi í lifr. þat bar til einn aptan, Þá er Þeir þorkéll ok þormódr villdu gánga til skémmu ok Sigrídr eptir Þeim, at Lodinn tók til Sigrídar, ok héllt henni, enn hún togadist úr höndum hönum, ok er þormódr sér Þat, Þá tekr

1) er þeim hiarta skapat. öll.
2) vantar í C.
3) lostasemi. 142. A.
*) Hávamál

hann í hönd hennar, ok vill kippa úr höndum hönum, enn Þat gengr eigi skiótt. Sér Þorkéll Þá Þeirra Þæfu. Hann mællti Þá vid Lodinn: láttu Sigrídi' fara leidar sinnar, óskuggasamligt er allt um vistir hennar úti Þar á kvelldum. Brennr Þar liós biart. Mun ek giæta hennar úti Þar á kvelldum, sva at eigi skal at verda um hennar rád Þat, er henni sé til svívirdíngar, né Þér til sneypu, enn Þú giæt hennar vel Þess í milli. Nú vid Þessi ord Þorkéls, Þá lætr Lodinn rakna hendur af Sigrídi, ok ferr hún leidar sinnar med Þeim Þorkéli ok Þormódi. Ok var nú kyrt um hríd.

## XXX.

## Dráp Lodins.

Þá er at Jólum dregr, lætr Þokéll mungát heita, Því at hann villdi Jóladryckiu hafa ok géra Þat til ágiætis sér, Því at sialldan var Jóladryckia á Grænlandi. Þorkéll baud Þángat vinum sínum at Jólum, ok vard Þar fiölmennt um Jólin. Skúfr ok Biarni af Stockanesi vóru ok Þar um Jólin at heimbodinu, Því at Þadan var húsbúníngr hafdr, klædi ok kér til bodsins. Nú drucku menn um

Jólin med mikilli gledi ok skémtan. Affaradag Jóla biuggust menn til brottfarar, ok fóru sva sem búnir vóru, ok Þöckudu Þorkéli vel veizlu ok heimbod. Lodinn verkstióri greiddi mönnum klædi sín og handagérvi, er hann hafdi vardveitt um Jólin. Hann setti framm skip Þeirra Skúfs ok Biarna, ok lét búa. Húskarlar báru ofan kér ok klædi, Þau sem höfdu verit höfd til bodsins af Stockanesi. Lodinn var í selskins kufli ok í skinnbrókum, ok var girdr í brækur. Nú vóru Þar allir menn nær í önn nockurri. Lodinn kémr Þá farandi í stofu vid IIII menn. Þar var eigi ádr fleiri manna enn Þormódr ok Biarni af Stockanesi, ok var í sínum beck hvörr Þeirra, ok töludust sva vid um Þvert gólf. Þormódr lá á framanverdum stockinum. Nú er Þeir Lodinn komu í stofuna, Þá greip Lodinn í fætur Þormódi, ok kipti hönum framm á gólfit. Þeir drógu Þá Þormód utar eptir gólfinu. Þá leypr Biarni upp, ok grípr um Lodinn midian, og vegr hann upp á bríngu sér, ok rekr hann nidr á gólfit. Biarni bannar Þeim, er Þormód drógu, ok bad Þá láta hann lausan, ok sva géra Þeir.

Nú stendr þormódr upp. Hann mællti þá vid Biarna: eingi tilkvama þycki mér slíkt vera, því at vér Íslendíngar erum vanir slíkum skinnleiks brögdum út á Íslandi. þeir Lodinn gánga framm ok láta, sem ecki sé í ordit. Nú er þeir Skúfr vóru albúnir til ferdar, þá gengr þorkéll til skips med þeim, ok heimamenn hans. Gánga þeir menn á skip út, er fara skylldu. þeir Skúfr höfdu feriu eina, ok lá bryggia á land. Biarni stód hiá bryggiuspordinum, ok beid Skúfs, er hann taladi vid þorkél. Lodinn var á landi uppi skamt frá skipinu, ok hafdi þá af hendi greitt farángr manna. þormódr var skamt frá því, sem þeir þorkéll töludu, ok er minstar vonir vóru, þá gengr þormódr at Lodni, ok bregdr sverdi, ok höggr Lodinn banahögg. þorkéll heyrir brestinn, ok lítr til, ok sér, hvar Lodinn er faliinn. þorkéll mællti þá vid menn sína, at þeir skylldi gánga at þormódi og drepa hann, enn þeim vard billt. Biarní mællti þá, at þormódr skylldi gánga á skip út. Hann gérdi sva. Biarni géck eptir hönum, ok er hann kom á skip, þá heimta þeir út bryggiuna.

þorkéll eggiar Þá til atgaungu sína menn, ok vill beriast til þormódar. Skúfr mællti Þá: brádlitit gérir Þú nú, þorkéll, á Þetta mál, er Þú vill drepa þormód hirdmann Olafs kóngs ok skálld. Mun ydr madrinn dýrkeyptr verda, ef kóngr spyrr, at Þér látit drepa hann, allrahellst er kóngr sendi hann ydr til handa ok til skióls, ef hann Þyrfti nockurs vid. Sýnist Þat í Þessu máli, sem opt kann at verda, at reidinn lítr eigi hitt sanna. Nú vilium vér bióda ydr siálfdæmi fyrir þormód ok víg Lodins. Enn þormód munum vér eigi láta, medan vid stöndum upp. Nú med Þessum ordum Skúfs, Þá sefast þorkéll. Áttu margir Þá lut at um sætt Þeirra. Fór Þat framm, at Þeir sættust. Handsalar Skúfr þorkéli siálfdæmi fyrir vígit. Fór þormódr Þá at vistafari á Stockanes til Þeirra Skúfs ok Biarna, ok var med Þeim Þat, sem eptir var vetrarins.

## XXXI.

## Frá Fífl-Agli.

Egill hét madr. Hann var húskall Þeirra Skúfs ok Biarna, mikill madr vexti

ok sterkr, liótr, ófimr ok óvitr, óbragdligr yfirlits. Hann átti kénníngarnafn, ok var kalladr Fífl-Egill. Þormódr var laungum ókátr ok ógladr. Húsbændunum Þótti á Því mikit mein, er hann var hliódr, ok spurdu Þeir hann at, ef Þeir mættu nockrar bætur ráda á hans hliódleika? Þormódr svarar: Þat villda ek, at Þid fengut mér fylgdarmann nockurn, Þann er eigi gérdi annat, enn hann fylgdi mér Þángat, sem ek villdi farit hafa. Þeir sögdu sva vera skylldu, bádu hann kiósa sér mann af huskörlum sínum, Þann sem hann villdi. Þormódr mællti: Fífl-Egil kýs ek til fylgdar vid mik. Hann er mikill madr ok sterkr, eigi ofvitr at géra Þat, sem ek vil fyrir hann lagt hafa. Þeir bádu hann ráda, enn Þó undrudust Þeir, hví hann kaus Egil sér til fylgdarmanns. Nú gérdist hann fylgdarmadr Þormódar, ok léku opt at hönum dætur heimskunnar Þær dul ok rángvirdíng, sva at hann vissi eigi giörla, hverr hann var. Biarni smídadi Þormódi öxi breida at fyrirsögn Þormódar. Hún var slétt öll ofan frá hamri ok til eggiar. Engi var eggvelr fyrir

henni. Hún var herdugód ok skarpegg ok seigt iárn í [1]).

## XXXII.
## Dráp Þorgríms Trölla.

Um [2]) vorit eptir Þenna atburd fóru menn til Þíngs í Garda í Einarsfirdi [3]), Þat er í Eiriksfirdi, ok höfdu allir saman búdir. Leyti bar á milli ok Þar sem Þeir höfdu búdir úr Einarsfirdi. Þormódr var í búd med Þeim Skúf ok Biarna. Nú er menn höfdu tialldat búdir sínar, Þá var Þorgrímr Trölli eigi kominn, ok litlu sídar var sén för hans, ok var hún audkénd, Því at hann hafdi skrautligt lid ok sva skip ok [4]) skipat medal stafna skrautligum skiölldum. Þar vóru ok mörg spiót á skipi. Sva var mikill ofsi Þorgríms, at menn Þordu trautt at mæla iöfnum ordum vid hann edr vid frændur hans. Veidarfæri höfdu Þeir Grænlendíngar iafnan á skipum sínum. Nú er skip Þorgríms rendi

1) ok kalla menn Þær axir vígslaungur bætir C. vid.
2) sumarit. 142. A.
3) Þeir úr. E. öll.
4) skorat. 142.

at landi, Þá gánga margir at siá skart Þeirra ok vapnabúnat til strandar. Þeir rydia skipit ok kasta á land veidarfærum, Þeim sem á skipinu vóru. Þormódr var Þar vidstaddr, er Þeir ruddu skipit. Hann tekr upp einn selskutil, ok lítr á, er Þeir höfdu á land kastat. Einn förunautr Þorgríms gengr á land, ok tekr til skutulsins, ok mællti: lumi Þú af skutlinum, Því at Þér mun lítils koma, Þá at Þú halldir á hönum, ok Þat ætla ek, at Þú munir lítt kunna at beita skutlinum. Hann svarar: lízt Þér sva, sem ek kunna lítt at beita skutlinum? Hann svarar: so sýnist mér víst. Þormódr mællti: Þyckist Þú betr kunna at beita enn ek? hann svarar: efalaust ætla ek Þat. Þormódr kvad Þá vísu:

Betr létz beita skutli
balldr hæler Því skialldar,
Þollr hleypr hart um hellr
[1]) hlunn riódz, enn vær kunna
giörr veit ek hitt [2]) hverium harri
hugdyrstr skipar fyrstum,

1) hlunni ioz C.
2) hve harri. öl k

veiti oss sá er átti
[1]) ormstorgs í skialldborgu.

Þormódr gengr þá heim til búdar sinnar eptir þat. Þeir förunautar Þorgríms tiallda þa búd hans med miklum snofrleik ok búast vel um. Þat barst at einn gódan vedrdag á þínginu, at menn allir gengu frá búd þeirra Skúfs ok Biarna, nema Þormódr einn lá heima í húdfati sínu ok svaf. Hann hafdi breidt á sik felld tvílodinn, er hann átti. Felldrinn var ödrummegin svartr, enn ödrummegin hvítr. Nú er Þormódr hafdi sofit nockra stund, þá vaknar hann, ok sér, at mennirnir allir eru í brottu úr búdinni, nema hann einn. Hann undrast nú, því at margt manna var at búdinni, er hann sofnadi, ok í því bili kémr Fífl-Egill inn í búdina, ok mællti: of fiærri ertu nú mikilli skémtan. Þormódr mællti: hvar vartu, edr hvat er nú til skémtanar? Egill svarar: ek var at búd Þorgríms Trölla, ok er þar mikill luti þíngheimsins. Þormódr mællti: hvat er þar til skémtanar? Egill svarar: Þorgrímr Einarsson segir þar sögu. Þormódr mællti: fra hverium

1) ormstorg. öll.

manni segir hann sögu? Egill mællti: eigi veit ek frá hverium manni sagan er, enn hitt veit ek, at hann segir vel frá ok skémtiliga, er stóll settr undir hann úti fyrir búdinni, ok sitia menn Þar umhverfis ok hlýda sögunni. Þormódr svarar: kunna munt Þú at nefna nockurn mann, Þann er í sögunni er, allra hellst er Þú segir, at sva mikit gaman sé at. Egill svarar: Þorgeirr nockr var í sögunni, kappi mikill, ok virdist mér, at Þorgeirr mundi nockut hafa verit vid sögnna ok gengit miök vel framm, sem líkligt er. Villda ek, at Þú færir Þángat ok hlýddir sögunni. Þormódr svarar: sva má vera, segir hann. Nú rís Þormódr upp, ok setr hatt á höfut sér, gengr sídan til búdar Þorgríms ok Egill med hönum, nema Þeir stadar undir búdar gafladinu ok hlýdast Þar um, ok mátti ógiörla heyra Þat er sagt var. Vedr hafdi á verit biart ok sólskin mikit, enn er Þeir Þormódr komu undir búdina, Þá tók vedrit at Þykna. Þormódr giördi ýmist, at hann horfdi upp í himininn edr ofan í iördina. Egill mællti: hví lætr Þú Þann veg, horfir stundum í lopt upp, enn stundum

nidr? þormódr svarar: Þann veg er nú himininn ísiónar, sem vant er, Þá er vobrestrinn verdr. Egill mællti: fyrir hveriu er Þat vant at vera, at vobrestrinn kémr? þormódr mællti: fyrir tídindum verda vobrestir of allt, enn nú ef sva verdr, at Þú heyrir vobrestinn, Þá forda Þér sva sem Þú mátt, ok hlaup sva, sem Þú mátt skiótast heim til búdar, ok giæt Þín Þar. Nú er Þeir töludust Þetta vid, Þá gérir á skúr mikla ok votvidri, hlaupa menn Þá á braut frá sögunni ok hverr til sinnar búdar, Því at menn höfdu ecki vid vætunni búizt. Sumir fóru í búdina þorgríms, ok vard mikil Þraung í búdardyrunum. Horfdu allir menn at búdinni. þorgrímr sat á stólinum, ok beid, ef nockut rýmdist í búdardyrunum. þormódr mællti nú vid Egil: bíd Þú hér, enn ek mun gánga framm fyrir búdina ok vita, hvat Þar sé tídinda, enn ef Þú heyrir vobrestinn, Þá laup Þú heim til búdar varrar, sva sem Þú mátt skiótast. Nú gengr þormódr framm fyrir búdina ok Þar at, sem þorgrímr sat. þormódr mællti Þá: hvat sögu var Þat, er Þú sagdir? þorgrímr svarar: eigi má ek Þér Þat

segia í fám ordum stórmerki Þeirrar sögu, edr hvört er nafn Þitt, madr? Hann svarar: [1]) Vígfús heita ek. Þorgrímr mællti: hvörs son ertu? hann svarar: ek er Ótryggsson. Þorgrímr vill Þá upprísa af stólinum, enn Þormódr hió Þá í höfut hönum, ok klauf í herdar nidr, ok brá öxinni undir felld sinn, enn hann settist undir herdar hönum, ok mællti: fari Þér híngat, á er unnit hönum Þorgrími. Nú snúast menn í búdardyrunum, ok siá áverkann, ok spyria: hverr á hönum hefir unnit, edr hvat veizt Þú til Þess manns, er á Þorgrími vann? Þormódr svarar: hér sá ek hann fyrir skémstu, enn ek hlióp Þegar undir höfut hönum, er á hönum var unnit, ok sá ek eigi, hvört sá fór, er á hönum vann. Nú taki Þér nockrir til ok stydi hann, enn sumir fari at leita Þess, er á hönum vann. Þá setiast menn undir höfut Þorgrími, enn sumir fóru at leita vegandans. Þormódr fór í brott, hann gengr Þá framm med siónum fyrir nes nockut, hann snéri Þá felldi sínum, ok lét Þá horfa út til hvíta felldarins. Egill heyrdi brestinn

1) Otryggr. 142. C.

er þormódr vann á þorgrími, hann hlióp Þá heim á leid til búdar Skúfs. Menn géta at líta Þat, er í leitinni vóru, hvar madr lióp, ok ætludu, at sá mundi vera sannr áverkans. Egill vard stórhræddr, er hann sá mennina hlaupa eptir sér herklædda, ok er hann vard handtekinn giörr, Þá skalf hönum leggr ok lidr [1]) (fyrir hrædslu sakir, öll bein hans skulfu, Þau sem í vóru hans líkama, enn Þat vóru CC beina ok XIV. Tennur hans nötrudu, Þær vóru XXX; allar ædar í hans hörundi piprudu fyrir hrædslu sakir [2]) (Þær vóru CCC ok XV). Enn er Þeir kéndu manninn, hverr var, Þá Þóttust Þeir vita, at hann mundi eigi drepit hafa þorgrím, Því at Egill var engi [3])árædis madr. Rann Þá af hönum hrædsla, sem hita af iárni. Fóru Þeir í búdirnar at leita vegandans, ok finnst hann eigi [4]) (um hrædslu Egils var Þetta kvedit:

1) vantar í 142 ok A.
2) vantar í C.
3) styrialldar madr. 142. A. hávadamadr. C.
4) vantar í 142. A.

2. Hræddr [1]) var hinn er meiddi
[2]) hiör alldregi sviptir tiallda
skulfu sídan [3]) skips í alfi
skiótlyndum medal [4]) hárs ok fóta
bædi tennr bein ok ædar
brann viskunnar [5]) hverfi Þannveg
fyrna hart [6]) sem elldr á arni
æsla mikil var Þessi hrædzla.)

Þeir menn, er vegandans leitudu, fóru framm til siáfarins, Þar sem nes eitt geck í framm. Þar mættu Þeir manni í hvítum felldi. Þeir spurdu hann at nafni, enn hann nefndist[7]) Tortryggr. Þeir spyria hann at, hvert hann ætladi at fara? Hann svarar: ek leita Þess mans, er vann á Þorgrími. Þeir gengust í móti, ok fóru hvörutveggiu snúdigt. Skilr Þá skiótt, ok fór Þormódr leidar sinnar, ok skilldi sva med Þeim.

1) miök. bætir C. inní.
2) hvör. C.
3) Skúfs. C.
4) hauss C.
5) hvörsu C.
6) kom elldr af iárni C.
7) Vígfúss. 142. A.

## XXXIII.

### Þormódr verdr sekr.

Þeir Skúfr ok Biarni sakna Þormóds, ok Þyckir Þeim eigi örvænt, at hann muni vera valldr áverkans, Því at Skúfr hafdi heyrt í Noregi [1]) átekt Olafs kóngs um hefnd eptir Þorgeirr Hávarsson. Nú er lída hin mestu hlaup Þeirra manna, er leitudu vegandans, Þá tóku Þeir Skúfr ok Biarni bát einn á laun, ok létu Þar á nockurar vistir. Þeir réru framm fyrir nesit, Því at Þeim var sagt, at Þar hefdi madr sezt í hvítum felldi, sá er nefndist [2]) Tortryggr. Ok er Þeir koma fyrir nesit, Þá sá Þeir, hvar Þormódr [3]) sat. Róa Þeir Þá at landi, ok mæla, at Þormódr skuli gánga á skip út. Hann gérir sva. Þeir spyria: hvert hann hafi unnit á Þorgrími? Þormódr kvad Þat satt vera. Þeir spurdu, hvat hann ætladi, hversu mikill áverki Þat mundi vera ordinn, Þormódr kvad Þá vísu:

1) ord. 142. A.
2) Vígfús. 142. A.
3) var. 142. A.

[1]) Aurvendis redz undir
[2]) opt finnunz Þess minni
öll er [3]) fremd of fallin
fiör nepps í strá grepp
[4]) ef hregg boda höggvit
hefi ek vart í skaur svarta
nadda bordz Því at [5]) nirdi
nætlings bana [6]) veittak.

Þó má verda, segir Þormódr, at höggit hafi eigi nógt ordit, Því at [7]) smá verda iafnan örvendra manna högg, enn Þó hió ek til eigi fleiri höggin, at ek ætladi, at Þorgrími skylldi Þetta eitt til bana. Skúfr mællti: giæfu hafdir Þú á, er Þeir kéndu Þik eigi Þá, er Þú sazt undir herdum Þorgrími; Þormódr kvad Þá vísu:

Undr er hví æigi kéndu
almbaurvar mik gérva
stáls [8]) ber ek mart á máli

1) aurvendi tredz 142. A. tradst. C.
2) finnast Þat. A.
3) fremri um 142.
4) er fyrir ef 142.
5) virdir. 142. A. nyrdinn. C.
6) vætteg. C.
7) Því at ek em örvhendr. 142. C.
8) hefi ek mark. 142. A.

mart [1]) um skopt hit svarta
birgunz lángt [2]) Því at lengra
líf var [3]) mér skapat drýfu
[4]) Þrenna pollz er Þolli
Þeim alldrtili [5]) seima.

[6]) (Skúfr mællti: sva má vera, enn hvört var Falgeirr Þar hiá, þórdisar son, kappinn? þormódr svarar: Þar var hann. Skúfr mællti, Þó mundi hann nú ódr verda vid víg þorgríms frænda síns. þormódr kvad vísu:

[7]) streingdi Þess á Þíngi
[8]) Þarflyndr er mik fyndi
hölldr at höggva skylldi
heit lofgerdar veiti
nær stód [9]) ek randa rýri
reckr létz ei mik Þeckia
gott er Þat at [10]) hulldar hetti
hefir [11]) halldit smidr stefia.)

1) oc skapt 142. A. umskíptit. C.
2) enn lengra. 142. A.
3) tvyskapat. C.
4) þrenna fólks af þótti. C.
5) semia. C.
6) vantar í 142 ok A.
7) streingi. C.
8) þrályndr. C.
9) ei fyrir ek. C.
10) hölldr hættu. C.
11) hefir falldat sundr stefia. C.

[1]) Biarni mællti, Þú munt nú láta vēra sva búit um hefnd eptir þorgeir, ok hefir Þú nú Þó gért fyrir Þitt nef Þángat út. Þormódr kvad Þá vísu:

4 [2]) Mætta ek hefnd enn brafni
hríngs féck ek brád á Þínge
[3]) hialldrs lét ek vígi valldit
[4]) varga fletz vid marga
gnyÞolli lét ek gialla
[5]) gért hef ek fyrir mér svörtum
[6]) meir hefudi Þó Þeirra
þorgeirs [7]) viner fleiri.

Biarni mællti: Þó munu margir Þat mæla, at Þú hafir giört aflausn um hefndina, er Þú hefir drepit Þann höfdíngia, er [8]) mestr vàr á Grænlandi, Þar er Þú ert kominn hér

1) audkéndr madr em ek, segir Þormódr ok má vera, at mik hafi til nockurs undandregit, ok lúti enn nockrir frændur Þorgríms fyrr í gras, enn ek. 142. A.
2) Matkat. öll.
3) balldr læt ek regni. C.
4) vargaskers. 142. A. vargafleys. C.
5) gérzt hefi ek fyrir svörtum. C. fyrir mik svartann 142. A.
6) mein hefdi. C.
7) vinr. C.
8) ríkastr. 142. A.

einmani, ok er ósýnt, hvert Þú kémst brott af Grænlandi, Því at Þorgrímr átti marga fráliga frændur. Þormódr svarar: eigi má Þat víst vita enn, hverium feigd er næst. Nú flytia Þeir hann til Eiríksfiardar, ok fylgia hönum í helli, Þann er Þormódshellir er [1]) kalladr. Sá hellir er í siáfarhömrum ödrumegin fiardar, enn Stockanes ödrumegin. Hamrar eru upp ok nidr frá hellinum, ok má klyfa upp ok nidr, ok var Þó hvert tveggia illt at fara. Þeir Skúfr ok Biarni fara nú aptr til Þíngsins. Þormódar var saknat á Þínginu, ok Þóttust menn vita, at hann mundi hafa vegit Þorgrím. Þorgrímr lézt Þegar eptir áverkann. Bödvarr ok Falgeirr biuggu mál til á hendur Þormódi um víg Þorgríms, ok vard hann sekr skógarmadr um vígit, ok er lokit var Þínginu, fór hverr heim til síns heimilis.

## XXXIV.

## Dráp Þórdísarsona.

Þeir Skúfr ok Biarni komu til fundar vid Þormód, ok sögdu hönum sekt sína

1) sidan. öll.

[1]) ok mælltu, at hann skylldi Þar vidhafast í hellinum, sögdu, at hann mundi hvörgi frid hafa, ef menn vissu, hvar hann væri. Sögdust Þeir mundu koma iafnan til fundar vid hann, ok færa hönum vistir eda annat, er hann Þurfti at hafa. Ok máttu nauduliga Þeir menn, er færir vórn, hlaupa af hömrunum ofan í grastóna. Þormódi Þótti daufligt í hellinum, Því at Þar var fátt til skémtanar. Einn gódan vedrdag rédst Þormódr brott frá hellinum. Hann klyfr upp í hamrana, ok hafdi med sér öxi sína. Nú er hann var skamt kominn brott frá hellinum, Þá mætir hann manni á leid. Sá var mikill vexti ok ósýniligr, liótr ok eigi gódr yfirbragds. Hann var í veriu miök sídri. Hún var saumut saman af mörgum tötrum, hún var margfölld ok felint semlaki, ok höttr upp af, af tötrum samansaumadr. Hún var öll allúsug, Því at Þá er sólskin var heitt, Þá gengu verfákar fullir frá fódri hanns hörunds á hinar yztu torfur sinna herbergia, ok létu Þar Þá vid sólu sídur blika. Þormódr

2) ok færdu hönum vistir ok Þat annat, er hann Þurfti at hafa. 142. A.

spurdi Þann mann at nafni. Sá svarar: ek heiti Oddi, ok er ek gaungumadr einn fastr á fótum, ok er ek kalladr Lúsa-Oddi, eliunarlauss madr ok eigi [1]) alllýginn, nockut fródr, ok hefi opt gott of gódum mönnum, edr hvat heitir Þú? segir Oddi. Torrádr heiti ek, segir hann. Hvat manna ertu Torrádr? ek er einn [2]) einhleypíngr, segir hann, edr hvört villtu eiga kaup vid mik? Oddi svarar: fátt á ek til kaupa, edr hveriu villdir Þú vid mik kaupa, edr hversu villdir Þú vid mik kaupa? Torrádr svarar: ek villdi kaupa yfirhöfn Þá, er Þú hefir. Oddi svarar: eigi Þarftu at spotta mik. Torrádr svarar: eigi spotta ek Þik, ek mun selia Þér kápuna, er ek er í, en Þú skallt selia mer veriuna, er Þú ert í, ok fara sendiför mína á Stockanes, ok koma Þar í kvelld, ok segia Þeim Skúfi ok Biarna, at Þú hafir mann hittan í dag, Þann er Torrádr nefndist, ok hann skipti vid Þik yfirhöfnum. Eigi bíd ek Þér fleiri eyrindi. Skalltu Þá eignast kápuna, ef Þú kémr Þessu til leidar í kvelld. Oddi svar-

1) allólyginn. 142. A.
2) kaupmadr. 142. A.

ar: eigi er allaudvellt at komast yfir fiördinn, Því at Þar Þarf skip ok farníng at hafa yfir fiördinn, enn Þó má vera, at ek koma Þessu til leidar, ef ek vil. Nú skipta Þeir klædunum, tekr Oddi vid blárri kápu ok ferr í, enn Torrádr ferr í veriuna Odda, ok ferr Þadan til Einarsfiardar, ok hitti smálamann þórdísar af Laungunesi. Torrádr spyrr, hvat synir hennar gérdi, edr hvört Þeir væri heima? Smálamadrinn svarar: eigi er Bödvarr heima, enn brædur hans vóru heima í nátt, ok eru nú rónir á fiski. þormódr segir: sva má vera at sé. Nú hugdi smálamadrinn, at hann ræddi vid Lúsa-Odd, Því at hann kéndi búníng hans. Nú skiliast Þeir at sva mælltu, ferr þormódr til nausta Þeirra þórdísar, ok hefst Þar vid. Ok er kvöllda tók, Þá sér þormódr, at Þeir brædur róa at landi, þorkéll réri framm í hálsi, en Þórdr í midiu skipi, Falgeirr í austrrúmi. Nú er skipit rennir at landi, Þá stód þorkéll upp, ok fór framm í stafn, ok ætladi at taka vid skipinu. þormódr gengr út úr naustinu, ok Þyckiast Þeir Þar kénna Lúsa-Odd. þormódr snýrr at þorkéli, bregdr exi undan veriunni,

ok höggr í höfut þorkéli, sva at hann fær Þegar bana. þá snýr þormódr á brott, ok steypir af sér veriunni, ok leypr. þeir Falgeirr ok þórdr hallda eptir hönum, enn hann undan. Hann kémr á siáfarhamrana yfir hellinum, ok hleypr ofan í tóna. þórdr leypr eptir hönum. Hann [1]) liknar Þegar í knésbótunum, er hann kom nidr, ok lýtr áframm. þórdr (þormódr) hió í Því medal herda hönum sva hart, at öxin söck, ok fyrr enn hann fengi nád öxinni úr sárinu, Þá lióp Falgeirr ofan í tóna, ok hió til þormódar, Þat högg kom medal herda þormódi, ok vard Þat allmikit sár. þá rann þormódr undir hendur Falgeiri, Því at hann nádi eigi öxinni. þormódr finnr Þá, at hann verdr aflvani fyrir Falgeiri. þyckir hönum Þá midlúngi vænn sinn kostr, slippr madr enn Þó miök sárr. Rennir hann Þá hugnum til fulltíngis sér Þángat, sem Olafr kóngr var, ok væntir sér Þadan hamíngiu. Í Því bili féll öxinn úr hendi Falgeiri, ok nidr fyrir hamrana. þyckir þormódi nú nockuru vænna, er Þeir eru bádir slippir, ok Því næst falla

1) kiknar. 142. 566.

Þeir bádir ofau fyrir hamrana á sióinn ok í kaf, ok reyna Þeir Þá sund sitt, ok færast ymsir í kaf, finnr þormódr, at hann mædist af blódrás. Enn fyrir Þá sök, at þormódr var eigi feigr, slitnadi bróklindi Falgeirs, rekr þormódr Þá ofan brækur um hæla hönum, daprast hönum Þá sundit, fær hann Þá annat kaf at ödru, ok dreckr Þá ómællt, skýtr Þá upp herdunum ok Þióunum, enn vid andlát siálft skaut upp andlitinu, ok var Því líkast at siá, sem Þá er madr glottir at nockru, ok í Því druknar Falgeirr, enn þormódr var Þá miök máttfarinn. Hann lagdist í eitt skér, ok skreid Þar upp á griót, ok lá Þar, ok vænti sér Þä einskis annars, enn lífláts, sva var hann máttlaus.

## XXXV.

## Skúfr ok Biarni finna Þormód.

Nú er at segia frá Lúsa-Oddi, hann fór sem mællt var med Þeim þormódi, ok kom á Stockanes um aptaninn, ok sagdi Þeim Skúf ok Biarna, at hann hefdi mann hittan um daginn, Þann er Torrádr nefndist, ok skipti vid hann yfirhöfnum, ok mællti hann,

at ek skylldi fara á Stockanes ok segia Þeim Skúf ok Biarna fund ockarn ok klædaskipti. Þeir kénna kápuna ok Þyckiast vita, at Þormódr muni Því Odda sendt hafa, at hann muni ætlat hafa at géra nockur stórvirki. Þeir taka Þá einn bát af launúngu um kvölldit, ok róa yfir fiördinn, ok er Þeir nálgast hellinn, Þá siá Þeir kvikt nockut í einu skéri, ok tala um med sér, hvört vera muni selr eda rostúngr, róa at skérinu, ok gánga upp, ok siá Þar mann liggia, ok kénna at Þar var Þormódr. Þeir spyria hann tídinda. Han segir Þau, sem giörzt höfdu um kvölldit. Skúfr mællti: víst hefir Þú eigi til einkis undan rekizt á Garda Þíngi, er Þú hefir ordit á einu kvölldi bani Þriggia brædra, mikilla kappa, ok kynstárra manna. Þormódr svarar: Þat eitt kom mér í hug, ádr Þid komut híngat, at ek munda hér lífit láta í skérinu, enn nú Þycki mér eigi örvænt, at ek muni verda græddr, ok má Þat enn verda, at nockurr Grænlendíngrinn deyi fyrr enn ek. Þeir spyria hann at um sameign Þeirra Falgeirs, Þormódr kvad Þá vísu:

[1]) Skopta ek Þá er uppi
[2]) undarligt á sundi
hrókr dó heimskr vid klæki
hans [3]) raza klof gandi.
alla leit ek á ulli
[4]) eggvedrs hugar gluggum
setti gaurr ok glotti
[5]) gunnfión vid mér siónir

Þeir Skúfr ok Biarni báru Þormód á skip út í fiórum skautum, Því at hann mátti eigi gánga. Þeir sækia í hellinn klædi hans ok vistir, Því at Þeim Þótti hann eigi Þar mega vera lengr. Þeir róa med hann inn eptir firdinum Eiriksfirdi [6]).

## XXXVI.

## Fluttr Þormódr til læknis.

Gamli hét madr, er bió i Eiríksfiardarbotni uppi undir iöklum. Hann var félítill madr, ok einrænn, veidimadr mikill. Gríma

1) skapta. C.
2) undarligr. C.
3) randa kólf Þandi. C.
4) eggvers. C. hugar glugga. 142. A.
5) gudsfión vid mér. 142. A. gudfión fyrir mik. C.
6) um nóttina. 142. A.

hét kona hans, hún var mikill svarkr, gér at sér ok læknir gódr, nockut fornfród. Eigi vóru Þar fleiri menn, enn Þau tvö. Komu sialldan til annara manna, ok sialldan komu adrir menn til Þeirra. Þeir Skúfr ok Biarni [1]) lendtu skipi sínu skamt frá bæ Gamla. Gengr Skúfr frá skipi til bæar, ok er hönum Þar vel fagnat, bodinn greidi [2]). Skúfr mællti: er sá greidi, at vér villdum at Þér Þiggia [3]) Gamli svarar: hverr er sa greidi? Skúfr svarar: sáran mann hefi ek hér med at fara, Þann er ek villdi, at Þú græddir. Gamli mællti: hverr er sá madr? Skúfr svarar: Þormódr, skálld Olafs kóngs, er ordinn fyrir áverkum. Gríma mællti: hverr hefir á hönum unnit? Skúfr segir henni tídindin, Þau er giörzt höfdu. Gríma mællti: mikill atburdr er sá ordinn, ok mikit vandamál sýnist mér í vera at takast á hendur skógarmann Þeirra frænda Þorgríms, ok allrahellst er hann hefir nú sva mikit stórvirki unnit í sektinni. Skúfr svarar: ek

1) bryna báti. 142.
2) Biarni sat yfir Þormódi.
3) Gríma. 142. A. C.

skal fé fyrir Þik bæta, ef Þér verda nockrar sakir géfnar um Þetta mál, ok hvergi skal Þik í skada um kostnat, Þann er Þú hefir fyrir þormódi. Nú lýkr sva Þeirra vidrædu, at Gríma tekr vid þormódi. Er hann Þá færdr upp til bæar, ok fægir Gríma sár hans, ok bindr um ok er hönum Þá nockuru hægra. Skúfr ok Biarni fara Þá heim á Stockanes. þessi tídindi Þóttu öllum mönnum á Grænlandi mikil, ok vard eigi skiótt víst ens sanna um Þenna atburd, Því at margir menn höfdu Þat fyrir satt í fyrstunni, at þormódr mundi druknat hafa, Þá er lík Falgeirs fannst rekit. Sár þormódar hafdist illa, ok lá hann [1]) XII mánudi í sárum. þá er vetr var lídinn fra falli Þeirra brædra, Þá géck þormódr milli stofu ok elldhúss, ok var Þó eigi heill sársins.

## XXXVII.

## Frá draumum Þórdísar ok Grímu.

Um vorit eptirvard sá atburdr á Laungunesi, at þórdís lét illa í svefni um nótt, ok ræddu menn um, at hana skylldi vekia,

1) lengi. 142.

enn Bödvarr, sonr hennar, svarar: láti Þér módur mína nióta draums síns, Því at vera má, at fyrir kéllíngu beri nockut, Þat er hún vill vita. Nú var hún eigi vökt, ok kémr Þó Þar, at hún vaknar at lyktum, ok andvarpar hátt [1]). Bödvarr tók til orda: illa hefir Þú látit í svefni, módir, edr hvat bar fyrir Þik? Þórdís svarar: vída hefi ek [2]) göndum rent í nátt, ok er ek nú viss ordin Þeirra luta, er ek vissi eigi ádr. Bödvarr mællti: hvat er Þat? hún svarar: Þat er, brædrabani Þinn er á lífi, ok er á vist med Þeim Gamla ok Grímu í Eiríksfiardarbotni. Nú munum vér fara á fund Þeirra, ok vil ek láta taka Þormód af lífi, munum vér koma í Brattahlíd, ok bidia Þorkél fara med oss, Því at hann mun illa kunna, ef Þeim er nockut til meins gért, Því at Þorkéll helldr miök hendi yfir Þeim [3]). Bödvarr kvazt búinn Þeirrar ferdar, Þegar hún villdi. Nú standa Þau upp [4]), ok taka eina skútu, er Þau áttu, stíga Þar á skip ok XV karlar med

1) ok mællti: hvar er Bödvar son minn? 142. A.
2) gaungum. C.
3) sem ödrum Þíngmönnum sinum. 142. A.
4) um nóttina. 142. A.

þórdísi fráligir, ok vel vopnadir, fara um nóttina út eptir Einarsfirdi, ok sva til Eiriksfiardar. Var Þá sva komit, at nótt var [1]) liós. Nú er þórdís er á leid komin med sitt föruneyti um nóttina, vard sá atburdr í Eiriksfiardarbotni, at Gríma lætr illa í svefni, ok mællti þormódr, at Gamli skylldi vekia hana. Hann svarar: eigi vill Gríma, at hún sé vökt, Þótt hún láti illa í svefni, Því at iafnan verdr hún Þá Þeirra luta viss, er henni berr naudsyn til at vita. Hættu Þeir hialinu, enn Gríma vaknar. Gamli mællti: illa lézt Þú í svefni, edr hvat bar fyrir Þik? Hún svarar: Þat bar fyrir mik, er ek veit nú: þórdís af Laungunesi er á leid komin med XV kalla, ok ætlar híngat at fara, Því at hún er nú viss ordin af tröllskap sínum, at þormódr er hér nú med oss, ok ætlar hún nú at drepa hann hér. Nú vil ek, at Þú sért at húsi í dag, Gamli, Því at eigi eru Þid oflidmargir, Þó at Þid séut bádir heima fyrir, enn XV menn sæki yckr heim, allra hellst, er þormódr er eigi vopnfærr, enn

1) farliós. 142. A.

Þó mun ek eigi senda yckr á iökla brott, ok hafist heima vid í dag.

## XXXVIII.

## Rannsakadr bær Grímu.

Nú er at segia frá þórdísi, er hún ferr um nóttina til Þess, er hún kémr í Brattahlíd. þorkéll fagnar Þeim vel, ok býdr Þeim greida. þórdís mællti: sá er mála vöxtr, at ek ætla at fara å fund Gamla ok Grímu, Því at ek er viss ordin, at þormódr, skógarmadr minn, er med Þeim, sá er margir ætludu druknadan vera. Nú villda ek, at Þú færir med oss, ok hélldir med oss til Þess, at vér nædim lögmáli á Þeim Gamla ok Grímu, ok veiztu þá, hvat er vér eigumst vid, ef Þú ert hiá siálfr. þorkéll svarar: ólíkligt Þycki mér vera, at Gamli muni [1]) vita skógarmann ydvarn, enn Þó mun ek fara med ydr á fund Þeirra Grímu. Nú hafa Þau þórdís Þar dagverd, enn þorkéll [2]) sópast at um menn, Því at hann villdi eigi eiga undir Þeim Bödvari, ef hann greindi á. Ok er menn vóru mettir,

1) vardveita. 142. A.
2) safnar at sér. C.

Þá fór þorkéll á skipi med [1]) XX menn ok fara vid sva búit. Gríma átti stól mikinn, á brúdunum stólsins var skorit líkneski þórs. Gríma mællti um morguninn: nú vil ek skipa til verks í dag, stól mun ek setia á stofugólf mitt, Þar vil ek, at þormódr siti á, Þá er menn koma, vil ek eigi, at Þú reisir upp af stólinum, Því at eigi stodar, at hokra undan í hyrníngar, ef Þér verdr bana audit. Enn Gamli skal festa upp kétil, ok sióda sel í dag, hann skal bera sorp á elldinn, ok géra reykfast í húsunum, enn ek mun sitia á Þreskilldi úti, ok spinna garn, ok [2]) tala vid kommendur. Nú er sva giört, sem Gríma fyrirsagdi. Ok er skip Þeirra þorkéls ok þórdísar eru sén at landi fara, Þá sezt þormódr á stól Grímu, enn Gamli sýdr, ok berr sorp á elldinn. Verdr reykfast í húsunum, ok fylgir Þat Þó, at myrkva mikinn lagdi med reyknum um öll húsin, sva at eigi mátti siá Gamla. Gríma sat á Þreskilldi ok spann, hún kvad nockut fyrir munni sér. Nú renna skipin at landi, ok gánga menn

1) XV. 142. ok A.
2) taka vid komumönnum. 142. A

upp til bæar. Gengr þorkéll at dyrum, ok heilsar Grímu. Hún bad hann velkominn, ok býdr hönum greida Þann, sem hann vill hafa. þorkéll mællti: þórdís á Laungunesi er hér í för, ok hefir hún Þat fyrir satt, at þormódr, skógarmadr Þeirra, sę med Þér. Nú vilium vér, at Þú selir þormód framm, ef hann er hér, Því at Þér mun ördigt vera, at hallda skógarmann Þeirra fyrir Þeim. Gríma mællti: undarligt sýnist Þat, at Þér ætlit, at ek muni hallda skógarmann Þeirra [1]) á Laungunesi, Þar sem ek sit vid annan mann í húsi hér í koti mínu. þorkéll mællti: víst er Þat ólíkligt, enn Þó vilium vér nú rannsaka herbergi Þín. Gríma svarar: Þess munu Þér kost eiga at rannsaka bæ minn, Þó at Þér hefdit eigi sva mikit fiölmenni. Nú Þyckir mér of allt gott, er Þú kémr í mín hús, enn illt mun mér Þyckia, ef Þeir Einarsfirdíngar hlaupa hér med géms sitt, ok spilli hér nockru í herbergium mínum. þorkéll mællti: vid þórdís munum inn gánga, ok rannsaka. Nú géra Þau sva, fóru inn í húsin, ok rannsökudu, ok var Þar eigi laung

1) sva ríkra manna. 142. A.

dvöl, Því at húsin vóru bædi fá ok smá. Þau lúka upp stofunni, ok var hún full af reyk, ok sáu Þau eigi til tídinda. Ramt var í húsunum af reyknum, ok vóru Þau helldr skémr inni, enn Þau mundu, ef reyklaust væri. Nú koma Þau út, ok er Þá rannsakadr bærinn [1]). Þá mællti Þórdís: eigi Þóttumst ek giörla siá fyrir reyknum, hvat í stofunni var tídinda, nú munum vér fara upp á stofuna, ok taka of skiáinn, ok láta leggia út reykinn, ok siá Þadan til, hvat í stofunni er tídinda. Nú fara Þau Þórdís ok Bödvarr upp á stofuna, ok taka af skiáinn, ok láta leggia út reykinn, ok siá nú um alla stofuna, géta Þau Þá at líta, hvar stóll Grímu stód á midiu gólfi. Þau sá Þór med hamri sínum sitia skorinn á stólbrúdunum, enn Þau sá eigi Þormód. Fara Þau nú af stofunni, ok gánga til dyra, Þá mællti Þórdís: eptir er enn nockut forneskiu Þinnar, Gríma, er Þórs líkneski er grafit á stólinum. Gríma svarar: ek er skialldkvæm til kirkiu at heyra kénníngar lærdra manna, Því at ek á langt at fara, enn fámennt heima, nú kémr mér

1) úti. bæta öll vid.

Þá í hug, er ek sé líkneski Þórs af tré gért, Þat er ek má brióta ok brenna, hversu miklu sá er meiri, er skapat hefir alla luti sýniliga ok ósýniliga, ok [1]) engi madr má yfir hans velldi stíga. Þórdís svarar: vera má, at Þú hugsir slíkt, enn nær mundi nú liggia, at vér mundum meir at Þér leggia, ok naudga Þér til sagna, ef eigi væri Þorkéll hér med slíkt fiölmenni, Því at sva segir mér hugr um, sem Þú vitir nockut til, hvar Þormódr er. Gríma svarar: at Því kémr nú, sem mællt er: at opt er sá villr, er géta skal, ok Þat annat: at hverium bergir nockut, ef hann er eigi feigr, enn Þat er naudsyn, at Þú Þackir Þat gudi, at fiandinn á Þik eigi sva heimila til ills, sem Þú villdir gért hafa, Því at Þat er vorkun, at madr géti eigi sanns, enn hitt er eigi vorkun, at hann hafi eigi trúnat á Því, er hann sér med augunum. Nú skilia Þær at sva mælltu, ferr Þórdís í brott med lid sitt ok sva Þorkéll, hvert til síns heimilis, ok er nú kyrt um hríd.

1) ok öllum lutum gérf lif. 142. ok A.

## XXXIX.

### Ferd. Þormóds til Einarsfiardar.

[1]) Þa er þormódr var heill ordinn sárs síns, er hann féck af Falgeiri Þá, komu Þeir Skúfr og Biarni eptir hönum, ok fluttu hann á brott med sér. þormódr launadi Þeim Gamla ok Grímu lidveizlu Þá, er Þau höfdu hönum veitta, med miklum fiárlutum. Hann fór Þá heim á Stockanes, ok vardveittu Þeir Skúfr ok Biarni hann i [2]) stockabúri sínu á laun. þar var þormódr enn Þridia vetr. Selldu Þeir Skúfr ok Biarni bæinn á Stockanesi ok adrar eignir í iördum, Þær sem Þeir áttu, ok ætludust at rádast í brott af Grænlandi. Snemma um vorit biugga Þeir skip sitt ok settu framm. þá fýstist þormódr úr útibúrinu, sagdist eiga eyrindi nordr í fiördu. Hann fær sér einn bát, Fifl-Egill rédst til ferdar med hönum. Egill sezt til ára, enn þormódr stýrir. Egill var gódr rædir ok vel syndr, vedr var gott, ok sólskin mikit, ok vindlítit. þeir fara nordr

1) þeir Skúfr ok Biarni fóru á laun til fundar vid þau Grímu ok færa þeim þá luti, sem þau þurftu. 142. A.

2) útibúri. 142 ok A.

til Einarsfiardar ok inn eptir firdinum, ok er Þeir komu inn í fiördinn, Þá ókyrdist þormódr í stafninum, hann rædst um ok hallar skipinu miök á ýmsa vega. Egill mællti: hví lætr Þú Þér sva æriliga? hvört villdir Þú hafa skipit yfir ockr? þormódr svarar: óvært er mér. Egill mællti: valla má ek róa fyrir starfi Þínu ok [1]) stánki. Enn hvat sem Egill mællti um Þat, lýkr sva umbrotum þormóds, at hvelfir skipinu undir Þeim. Kafar þormódr Þá undan bátinum, ok Þadan tekr hann annat kaf af ödru, til Þess er hann kémr á land. Hann hefir med sér exi sína. Egill kémr upp hiá bátinum, ok fær komizt á kiölinn ok tekr Þar hvílld, litast um, ok hyggr at, ef hann sæi nockut þormód, ok fær hann hvergi hann sét. Egill réttir bátinn, ok eys upp, sezt hann til ára, ok snýr bátinum, ok rær út eptir Einarsfirdi. létti hann eigi fyrr ferd sinni, enn hann kom [2]) á Stockanes, segir Þeim Skúf ok Biarna allt frá ferd sinni, lætr hann Þat ok fylgia sögunni, at hánn ætlar, at þormódr

1) slarki. C.
2) rær aptr til skips. 142 ok A.

sé druknadr. Þeim Skúf ok Biarua Þótti sá atburdr undarligr ordinn vera, ok Þyckiast Þó ecki sva búit mega atgéra, enn renna Þó á grun um, hvört Þormódr muni daudr vera.

## XL.

## Áverki vid Liót.

Nú skal segia frá Þormódi, hvat er hann hefst at: Þá er hann kom á land, vatt hann fyrst klædi sín, ok eptir Þat tók hann á sik gaungu, ok fór til Þess hann kom á Hamar til Sigrídar. Hann kom Þar síd dags, hann drap Þar á dyr, ok gengr Þar út einn madr ok heilsar hönum, snýr aptr ok gengr til stofu. Þormódr gengr eptir hönum í stofuna. Hann sezt utarliga. Sigrídr tók til orda ok mællti: hverr kom madr í stofu? Þormódr svarar: Ósvífr heiti ek. Sigrídr mællti: sva er margr, sem heitir, vill Ósvífr vera hér í nótt? hann kvazt Þat Þiggia mundi. Er hann Þar um nóttina, ok um morgunin kom Sigrídr at máli vid hann, ok spurdi: hvert ætlar Þú at fara, Þormódr? hann svarar: Ósvífr nefndist ek. Sigrídr mællti: satt var

1) Þóttist ek kénna Þik. 142. A.

Þat, at Þú nefndist Ósvífr, enn [1]) Þegar kénda ek Þik, er ek sá Þik. Þormódr svarar: Þá er eigi dællt at dyliast, Því at Þú hefir rétt kéndan manninn, enn Þar er Þú spurdir at um farir mínar, Þá ætla ek at fara á Laungunes til Þorunnar Einarsdóttur ok at hitta Liót son heunar, Því at mér er sagdr hann mikill madr vexti ok skarzmadr, hefi ek ok Þat sannspurt, at hann leggi illar umrædur á vid mik. Sigrídr segir: Þá skal fara Sigurdr son minn med Þér, Því at lengi hafa Þau Þorunn ok Liótr verit Þúngt til ockar sem til margra annara. Þormódr svarar: órádligt sýnist mér Þat, at Sigurdr fari med mér, Því at Þér munut eigi mega hallda bústad yckrum hér, ef nockut skérst í med oss. Sigrídr mællti: giarna vil ek láta bústad minn til Þess, at Liótr fái nockra svívirdíng. Nú ferr Sigurdr med Þormódi á Laungunes. Þeir Þormódr drepa Þar á dyr, ok gengr ein kona út ok heilsar Þeim. Sigurdr spyrr, hvört Liótr væri heima. Hún segir hann í stofu. Sigurdr mællti: bid Þú hann koma út. Kona gengr í stofuna, ok mællti: Þat var mællt, Liótr, at Þú skylld-

ir útgánga. Liótr spurdi, hverr Þat mællti? hún svarar: Sigurdr á Hamri kom, enn ek kénda eigi annan. Liótr mællti: hvern veg var sá madr sýnum, er Þú kéndir eigi? hún svarar: svartr [1]) á hárslit, ok hröckinhárr. Líkan segir Þú Þann mann Þormódi, sakadólg mínum. Nú gengr Liótr framm, ok tekr spiót í hönd sér, ok konur med hönum, Þær sem í stofunni vóru. Hann gengr út í dyrin, ok kénnir Þormód. Hann leggr Þegar til Þormóds, ok stefnir á hann midian. Þormódr lýstr vid öxinni, ok [2]) berr nidr spiótit, ok kémr í fótinn hönum fyrir nedan kní, ok verdr Þat sár mikit. Liótr lýtr vid lagit, er hann lagdi til Þormóds, ok Þá hió Sigurdr medal herda Lióti, ok særir hann miklu sári. Þá lióp Liótr inn í dyrnar. [3])(Þormódr hió eptir hönum, ok kom höggit á lærit, ok reist ofan lærit ok kálfann, hlióp öxin nidr í Þreskiölldinn. Liótr féll inn í dyrinn, konurnar liópu yfir hann framm, ok ráku aptr hurdina). Þeir Sig-

1) vantar í öllum.
2) berr af sér. 142. A.
3) vantar í 142. A.

urdr snúa á brott. Þá mællti Þormódr, at Sigurdr skylldi fara heim á Hamar ok segia módur sinni tídindin, enn ek mun leita fyrir mér, segir Þormódr. Nú skiliast Þeir ok ferr Sigurdr heim, ok segir módur sinni Þat, er í hefir giörzt. Sigrídr mællti: Þat sýnist mér rád, at Þú farir á fund Þeirra Skúfs ok Biarna, ok skorir á Þá til vidrtöku, ok segir Þeim, at ek vil selia land mitt, ok kvikfé, vil ek ok rádast í brott med af Grænlandi. Nú fór Sigurdr leidar sinnar, [1] (ok er hann var skamt kominn frá gardi, Þá hittir hann Þormód, ok hafdi hann Þar bedit Sigurdar. Fara Þeir nú bádir saman á fund Þeirra Skúfs ok Biarna, ok segia Þeim slíkt, sem í hafdi giörzt. Ferr Skúfr Þá ok selr land Sigrídar, ok flytr í brott med sér allt búferli hennar, ok ferr aptr til skips síns. Einn aptan rédst Þormódr heiman, hann tekr bát, ok réri yfir Eiríksfiörd um nóttina hann gengr frá skipi, Þar til hann kémr á Laungunes, hann ferr til nausts [2]) Þórdísar

1) hvat hér segir frá för Þormóds aptr til Skips ok frá fundi Þeirra Kárs, ok náliga allt ( ) vantar í 142 ok A.

2) Þorunnar. 142. A.

ok legst Þar nidr, ok felst, Því at hann ætlladi, at Bödvarr mundi róa á siá um daginn, [1]) sem hann var vanr. Ok er á leid morguninn, Þá sér hann, at [2]) (III) menn gánga frá bænum til skipsins. Þeir ræddu um Þat, hvert Bödvarr mundi heim koma um daginn, Því at hann hafdi farit at binda um sár Lióts á Lánganes. Þormódr liggr sem ádr, Þar sem hann var kominn, Því at hann var lítt gengr fyrir sárinu. Þeir húskarlarnir réru nú á fiski, sem fyrir Þá var lagt. Ok er leid á daginn, sér Þormódr, at húskarlarnir róa at landi. Þormódr gérdist verkmikill fótrinn. Madr hét Kárr, hann var verkstióri Þórdísar, hann var nú róinn med húskörlum, hann var ok frændi Bödvars. Nú vinna Þeir at fángi sínu, ok [3]) setia upp skip sitt ok búa um. Vedri var Þann veg farit, at Þoka var ok [4]) væta. Gánga Þeir heim, er Þeir vóru búnir. Þormódr heyrir, at Þeir ræda um, at Bödvarr væri heim kominn.

1) til fiska. C.

2) vantar í öllum.

3) bryna upp báti, enn draga ei í naust. 142. A.

4) úr væta. C.

þormódr villdi hafa skipit yfir fiördinn til Víkr. Ok er Þeir Kárr vóru nær at túngardi komnir, Þá mællti Kárr: mér hefir eptirlegit bolex mín, ok mun ek gánga eptir henni. þeir budu at fara med hönum, enn hann villdi Þat eigi. Ferr nú ofan snúdigt. þormódr var Þá kominn til skipsins, ok hefir Þá frammsett. Kárr lítr mannin ok kénnir þormód; snýr hann heim, ok ætlar at segia Bödvari hvat títt er. þormódr sér Kár, at hann vill heim, ok ætlar þormódr at snúa eptir hönum, enn hönum var sva styrdr fótrinn, at hann mátti hvörgi komast. Hann kastar Þá öxinni eptir Kár, ok kom á fótinn [1]), ok beit úr kálfann úr fætinum. Kárr halltrar heim, ok verdr för hans sein. þormódr tekr öxi sína, ok hleypr á skip út, ok rær frá landi) ok stefnir til bæarins í Vík. þórdís hafdi sofit um [2]) daginn, ok er hún vaknar, varpar hún mædiliga öndinni, ok mællti: hvört er Bödvarr heim kominn, edr eigi? hann svarar: hér er ek, módir, edr hvat villdir Þú nú? hún svarar: bíta mætti

1) fyrir nedan knésbótina. C.
2) kvölldit. öll.

nú beitfiskr, ef at bordi væri dreginn, Því at hér hefir verit Þormódr, skógarmadr Þinn í allan dag í nausti voru, ok hefir hann nú unnit á Kárr frænda Þínum ok tekit bát Þinn ok rær nú yfir á fiörd, ok hygg ek, at hönum sé verkr í sári, Því er Liótr veitti hönum. Gét ek ok, at hönum verdi eigi greidfært yfir fiördinn fyrir Þoku sakir. Þætti mér eigi fiærri, at vér færim til fundar vid hann. Bödvarr sprettr Þegar upp ok mællti: búinn er ek Þeirrar ferdar, segir hann. Enn er Þau koma út fyrir dyr, Þá siá Þau, hvar Kárr halltrar, ok var hann Þá kominn heim at húsunum. Enn Þormód siá Þau hvörgi, Því at Þokan var sva myrk.

## XLI.

### Þormódr felst í Þarabrúki.

Hlaupa Þau nú á skip ok [1]) V menn adrir med Þeim, Þrífa Þau teinæríng, ok róa á fiördinn at leita Þormóds um nóttina. Þormódr heyrir nú til Þeirra ródrinn ok málit ok grunar nú, at Þórdís muni vera á leid

1) med Þórdísi. 142. A. X. C.

kominn med húskarla sína. Sýnist þormódi Þeigi vænn kostrinn, ef hann verdr fundinn. Hólmi einn lítill var skamt frá þormódi, enn Þadan var Þó lángt til lands, ok gengu Þar yfir haflædar, enn eigi géck yfir at medaldögum. þat verdr þormódi fyrir, hann hvelfir skipinu, enn hann legst til [1]) hólmsins. þarabrúk lá um allan hólmann. Grefst þormódr nidr í eitt Þarabrúk medal steina, ok berr á sik ofan mikit Þarabrúk. þau þórdís fara um nóttina ok siá í Þokunni sorta [2]) nockurn á siónum, ok vita eigi, hvat Þat var, róa Þángat, ok siá, at Þar hvolfir skip á siónum, ok eru árar í hömluböndum. Húskarlar mælltu: hér mun þormódr hafa róit á stein nockurn ok kvelft skipinu, ok mun han hafa týnzt. þórdís svarar: eigi mun þormódr enn hafa druknat, helldr mun hann hafa varr ordit vid för vora, ok mun hann hafa hvelft skipinu at siálfvilia sínum, til Þess at vér ætludum hann druknadan vera, enn hann mun til hólmsins lagizt hafa, ok mun hann Þar fólgizt. Nú skulum vér leggia

1) landsins. öll.
2) mikinn. C.

skipit á skérinu ok leita hans Þar. Sva géra Þau, enn er Þau koma í skérit, mællti Þórdís: nú skulut Þér stánga med spióta oddum Þarann allan í hólminum ok leita hans sva. Þeir gérdu, sem Þórdís lagdi fyrir Þá, enn Þó fundu Þeir hann eigi. [1]) (Þormódr rendi Þá hugnum til Olafs kóngs, ef hans giæfa mætti nockut duga hönum). Þormódr skeinist vída af spiótsoddum Þeirra. Enn er Þeir höfdu farit um hólminn allan, ok stángat spiótum Þarann allan, Þá sýndist Þeim eigi von, at hann mundi Þar vera. Þórdís mællti Þá: Þat er ætlan mín, at Þormódr sé hér í skérinu, Þó at vér finnim hann eigi, nú ef hann er sniallari enn geit, edr hugprúdari, enn meri, ok megi hann heyra mál mitt, Þá svari hann. Þormódr heyrdi, hvat er hún mællti, ok villdi Þá svara, enn hann mátti Þat eigi, Því at hönum Þótti, sem tekit væri fyrir munn sér. Nú fara Þau Þórdís í brott vid sva búit, ok taka Þat skip, er Þormódr hafdi Þángat haft. Nú er Þau vóru brott farin, Þá reis Þormódr upp úr brúkinu. Hann legst Þá Þángat á leid, sem

1) vantar í 142. A.

hönum Þótti skémst til lands, Því at Þá lýsti í Þokuna. Hann hendi Þá skér frá skéri, Þau sem á leidinni vóru, ok tók hvílld í skériunum, ok er skamt var til lands, Þá kom Þormódr í eitt skér, ok var kædi styrdr ok módr, sva at hann mátti Þá hvörgi Þadan fara.

## XLII.

### Steinar flytr Þormód til skips.

Á Þeirri nátt dreymdi Grím í Vík, at madr kom at hönum [1]) vænn ok [2]) tíguligr, sá madr spurdi Grím, hvört hann vekti, edr svæfi? Grímr Þóttist svara: vaki ek víst, edr hvörr ertu? draummadrinn svarar: ek er Olafr kóngr Haralldsson, ok er Þat eyrindi mitt híngat, at ek vil, at Þú farir eptir Þormódi hirdmanni mínum ok skálldi, ok veitir hönum biörg, Því at hann má eigi komast Þadan, sem hann liggr í skérinu skamt frá [3]) bæ Þínum, ok hefir hönum eigi slétt farizt í dag. Nú segir ek Þat til marks, at Þat er

1) mikil. C.
2) drengiligr, medalmadr at hæd, ridvaxinn ok herdamikil. 142. A.
3) landi. 142. A.

satt, er fyrir Þik berr, at sá madr útleudr, er verit hefir med Þér Þriá vetr, ok Géstr heitir, at hann heitir Steinarr, ok er kalladr Helgu Steinarr, hann er Íslenzkr madr, ok fór Því af Íslandi, at hann ætladi at hefna Þorgeirs Hávarssonar, enn Þó at Steinarr sé garpr mikill ok hardfengr madr, Þá mun hönum lítils verda af audit um hefnd eptir Þorgeirr [1]) (ok mun annarstadar koma hans hardrædi meir framm). Nú er Olafr kóngr hafdi Þetta mællt, Þá vaknar Grímr, ok vekr Gést, ok mællti, at hann skylldi upp standa. Rís hann Þá upp, ok tekr sverd í hönd sér, gengr út med Grími, setiast Þeir nidr ůti. Þá mællti Grímr: hvat heitir Þú? Géstr svarar: muna muntu Þat, hvat ek hefir Þér tilsagt. Grímr svarar: man ek víst, hvat er Þú nefndist, enn at hinu vil ek spyria: hvert Þú heitir, sem Þú nefndist? Géstr svarar: hví eigi svá? Grímr mællti: Því ef Þů heitir Steinarr, ok ert kalladr Helgu Steinarr á Þínu landi. Géstr mællti: hverr segir Þér Þat, at sva væri? Grímr svarar: Olafr kóngr. Géstr mællti: nær

1) vantar í 142. A.

hittir Þú Olaf kóng? Þá segir Grímr hönum drauminn allan. Steinarr mællti: satt er Þat í draumi Þínum, er til mín kémr, ok vænti ek, at sva muni vera fleira. Nú fara Þeir Steinar at leita Þormóds, ok finna hann Þar, sem Olafr kóngr hafdi tilvísat. Færa Þeir hann heim í Vík, ok vardveita hann Þar á laun ok græda hann, ok er hann var heill ordinn áverkans, [1]) Þá flytr Steinar hann til skips, Því at Skúfr var Þá vid skip. Rédst Steinar Þá í burt úr Vík, ok er vid skip. Förin Skúfs frestast Þar til, er lokit var Þínginu Þeirra Grænlendínga. Bödvarr gérdi sekan Sigurd Sigrídarson um áverka vid Liót. Eptir Þíngit var Skúfr albúinn til siglíngar.

## XLIII.

### Þormódr ferr aptr til Noregs.

Þann morgin, er byr rann á, ok Skúfr ætladi at sigla, fóru Þeir frá skipi Þormódr ok Steinarr at óleyfi Skúfs á einum báti. Þeir fóru til Einarsfiardar, ok inn eptir firdinum fyrir bæ Þorunnar. Þar siá Þeir Þriá

1) fór hann. 142. A.

menn á skipi sitia á fiski. þeir kénna Þar Liót þorunnarson. þeir leggia at Þegar ok beriast vid Þá, ok lýkr sva Þeim fundi, at Liótr fellr ok Þeir menn, er med hönum vóru. Fara Þeir aptr þormódr ok Steinarr til skips. Skúfr var Þá búinn til siglíngar. Stígr þormódr á skipfiöl, enn Steinarr er eptir. Hanu ferr til vistar í Brattahlíd til þorkéls Leifssonar. Skúfr ok Biarni láta í haf, fá góda byri, ok ferst vel, taka Noreg med heilu ok hölldnu. Enn er Skúfr ok Biarni koma í Noreg, Þá skipta Þeir fé sínu, hafdi Biarni skip úr félagi, enn Skúfr lausafé. Héllt Biarni sudr til Danmerkur, [1]) og géck Þadan til Róms, ok sótti heim hinn helga Petrum Postula [2]). Rómaborg létu géra brædur tveir, hét annar Romulus, enn annar Remus [3]). Enn er borgin var al-

1) ok setti þar app skipit. ö l l.

2) ok Paulum. ö l l.

3) þeir vóru tvíburar. Borginn var gjör eptir enu óarga dyri. Var dyrit ristit á iördunni, ok þar upp af vóru reistir borgarveggir, er höfudit dyrsins fyrir nordan ána. Er sá hlutr borgarinnar kalladr Róma, enn sá lutr borgarinnar, er fyrir utan ána er,

gér, Þá urdu Þeir missáttir, af hvörs nafni borgin skylldi nafn taka, Því réd Romulus bródur sínum fiörrád, ok drap hann. Þá var borginn kénd vid Romulum, Því at húu heitir Róma åt [1]) bókmáli. [2]) Í Þeirri för andadist Biarni. Skúfr ok Þormódr fóru á fund Olafs kóngs, enn Sigrídr ok Sigurdr son hennar keyptu sér iardir í Noregi, ok biuggu Þar til dauda. Kóngr var eigi margr til Þormóds í fyrstunni.

## XLIV.

## Frá Olafi kóngi ok Þormódi.

Sá madr hafdi komit af Íslandi á fund Olafs kóngs, er Grímr hét, ok kalladist hefnt hafa Þorgeirs Hávarssonar, ok fyrir Þat lagdi Olafr kóngr á hann virdíng, ok gaf hönum giafir, enn Þormódr vissi á hönum öll deili, ok var Grímr illmenni, ok hafdi myrdan mann út á Íslandi. Þat bar

heitir Latransborg e. Latran e. Latera, enn Þat Þydist sídr. bæta 124 ok A vid.

1) réttu. A. C.

2) Biarni kom til Róms ok vitiadi Þar helgra stada, Því at ecki er sá stadr í Romaborg, at ei sé rodinn med blódi heilagra manna. bæta 142 ok A. vid.

at einn dag [1]) at Olafr kóngr sendi dryckiarhorn þormódi, ok mællti, at hann skylldi kveda vísu:

þér fengut fé [2]) færa
flim er opt kvedit Grími
[3]) mér ok miklu fleira
[4]) mæríngr enn Þörf væri;
hann hefir hunds verk unnit
hvinn gétr slíkt edr minna
[5]) mætr enn ek menzku bættag
mína gramr ok Þína.

Kóngr mællti: Þyckist Þú meiri fremd hafa gért á Grænlandi, enn Grímr á Íslandi? þormódr svarar: Þat ætla ek, at Þér Þycki svá, ef Þú veizt giörla. Olafr kóngr mællti: hvat vantu mest til frægdar á Grænlandi? þormódr kvad Þá vísu:

þollr vó þorgrímr Trölla
Þar [6]) laut hardr til iardar;

1) er hann géck fyrir kónginn, þa. kvad þormódr vísu 152. A.
2) fleira. öll.
3) færit miklu meira 142. A. meira C.
4) mæríngs enn til væri. 142. A.
5) matt 142. A. mættr. C.
6) hné. 142. A.

ádr [1]) réd ek odda hrídar
ótraudr Lodins dauda,
Þar nam ek þorkél fiörvi
þórdr lét aund enn fiórdi
felldr var frægr til folldar
Falgeirr skörúngr Þeirra.

Olafr kóngr mællti: framar hefir Þú giört um [2]) vígin á Grænlandi, enn fiskimadrinn kallar aflausn fiskinnar, Því at hann kallast sik leysa, ef hann dregr fisk fyrir sik, annan fyrir öngul, hinn Þridia fyrir vad, fiórda fyrir skip. [3]) (þormódr svarar: vó ek enn tvo menn um daginn, ádr vér sigldum af Grænlandi, enn Helgu-Steinarr drap einn. Kóngr mællti: hverir vóru Þeir menn? þormódr svarar: Liót vó ek systurson þorgríms Trölla). Olafr kóngr mællti: Því váttu Þá sva marga? þormódr svarar: illr Þótti mér merariöfnudr Þeirra. Kóngr mællti: hvern veg var merariöfnudr sá? þormódr svarar: Þeir töldu mik vera sva med mönnum, sem meri med hrossum. Vorkun var Þá á, segir

1) reid. 142. A.
2) hefnd. 142. A.
3) vantar i 142. A.

kóngr, at Þér mislíkadi miök Þeirra umræda, hefir Þú ok stórt atgért. Þormódr kvad Þá vísu:

Els hef ek illan [1]) díla
eckils [2]) Þeim er mik sektu
geig [3]) vann ek gervi draugum
Grænlendínga brenda
[4]) sá mun at sæki-tifsum
sverd els frömum verda
hríngs [5]) á hryggiar tánga
[6]) hog græddr nema meirr logi.

Kóngr mællti: sva mun vera, sem Þú segir, seint mun sá díli græddr verda um mennina, er Þú hafir [7]) vegna á Grænlandi.

Þadan af var Þormódr med Olafi kóngi í [8]) miklum kiærleikum, Því at hann reindist hinn röskvasti í öllum mannraunum.

1) döla. C.
2) Þes. 142. A. Þó mér. C.
3) nam. 142. A.
4) so mun at sæki lofum C. sæki tivfum 142. A.
5) en. 142. hriggu tanga. C.
6) hugræddr C. hogdregr nema mér lægi. 142.
7) brenda. 142.
8) yfirlæti gódu. 142. 142. A.

þormódr fór í Garda austr med Olafi kóngi, ok Þoldi med hönum alla útlegd, fór aptr med Olafi kóngi til Noregs, Því at þormódi Þótti betra at deya med hönum, enn lifa eptir hann daudann, sem enn mun sídar sagt verda.

## XLV.

## Þormódr rædr at brenna hús bænda.

Nú er kóngr kom í þrándheim ok í dal Þann, er kalladr er Veradalr, ok hann vissi mótstödu vid sik, Þá [1]) spurdi kóngr þormód í gamni: hvert mundi nú vera Þitt rád, ef Þú værir hér höfdíngi yfir lidi Þessu, er vér höfum? þormódr kvad Þá vísu:

Brennom öll fyrir innan
[2]) inney Þau er vér finnom
land skal [3]) heim med hiörvi
[4]) hver bær fyrir gram veria
ys [5]) taka allra húsa

1) er hann sá lid þrænda hvörsu mart þat var, þá mællti hann vid þormód, þú ert hvatabussi mikill. þormódr segir: sé ek rad til, er hlyda mun. A. C.
2) inne. C.
3) hier. C.
4) hver borg. 142. A. humbiörgum. C.
5) taki. öll.

InnÞrændir [1]) kol svinna
angr man kveikt í klungri
kauld ef ek má vallda.

Kóngr mællti: hlýda mundi, ef sva væri giört, sem Þú mælir, enn annat manum vér fyrri ráds taka enn brenna land vort siálfra, enn Þó gruna ek eigi, Þormódr, at Þú mundir sva géra.

## XLVI.

## Þormódr hleypr um akr ok etr kiöt föstudag.

[2]) (Enn er Olafr kóngr reid frá Þorgeiri Fleck af Súlu, Þá siá Þeir rída Þriá menn í móti sér, Þat var einn bóndi úr Veradal. Hann kvaddi kóng, ok mællti: Þat er eyrindi mitt híngat, herra, at segia ydr, at menn hafa tekit vid fé Knúts konúngs til Þess at svíkia land undan ydr, enn ek hefi eigi vidtekit, Því at ek var eigi tilkvaddr, enn ek fór til Þess á ydvarn fund, at ek vil bióda ydr til veizlu med öllu lidi ydru. Kóngr svarar: hygg Þú at, hvat Þú mælir, edr veiztu fiöl-

1) kol sinna. öll.
2) ( ) vantar i öllum.

menni mitt? bóndi mællti: eigi hefi ek talit, enn gét ek til, at eigi sé fleiri enn XIII hundrut, enn eigi færri enn XI. Kóngr mællti: vel segir Þú, ek hefir XII hundrut manna, ok munum vér Þiggia veizlu. Bóndi ferr heim at búa veizlu, ok bidr Þá eigi troda akra sína. Þat munda ek vilia, segir kóngr, enn eigi er hægt at stiórna XII hundrudum manna. Þeir fara nú, unz Þeir koma at ökrum bónda, ok rída millum framm akranna. Þormódr Kolbrúnarskálld kémr at framm med sveit sína ok mællti: siálfrádr hefi ek verit, sídan ek var VII vetrum ellri, ok hefi ek siálfr rádit förum mínum sídan, ok sva skal enn vera. Leypr um akrinn midian, ok sva hverr at ödrum, unz akrinn var allr nidrbrotinn. Þeir koma á veizluna, kóngr kvad Þá ómakliga veizlu at Þiggia, sva óspakliga sem Þeir höfdu farit. Bondi segir: siá Þóttunst ek Þat, at Þér mundut eigi géta öllum skadlaust stýrt XII hundrudum manna, enda mun vera annathvert, at fagnadr mun sva verda mikill í landi Þessu, at um Þetta mun einkis vert Þyckia, ella mun sannast hitt fornkvedna: at sva skal böl bæta at bída

annat meira. Kóngr ok lærdir menn vóru í húsum inni, enn tiölld vóru úti yfir almenníngi, heimamenn unnu nátt med degi.

Þormódr Kolbrúnarskálld hyggr at rádi sínu, minnist heits Þess, er hann hét á Grænlandi, at fasta IX drottinsdaga, enn eta kiöt föstudaga IX, ádr hann dræpi Þorgrím Trölla. Þormódr vaknar, ok vill efna heitit, kémr at sodgreifa, ok tekr eitt mörbiúga, ok bítr í sundr: ok etr hálft. Sodgreifinn mællti: ertu kóngs madr? Þormódr mællti: satt er Þat. Sodgreifinn segir: lítt er vandat lid med kóngi, ok mun hönum eigi vel líka, ef hann veit, hvat Þú gérir. Þormódr segir: opt gérum vér annat enn kóngr vill, veit hann stundum, enn stundum eigi. Sodgreifinn mællti: eigi muntu Krist leyna. Eigi ætla ek Þat, segir Þormódr, enn annathvert mun oekr Krist áskilia meir enn hálft mörbiúga, ella munum vid verda vel ásáttir.

Kóngr býst snemma um morgininn, ok vil bída lids síns á Sifánga, ok Þackadi vel bónda beina sínn.

## XLVII.

## Frá skálldum.

Sva er sagt, at Olafr kóngr fylkti lidi sínu, Þá skipadi hann skialldkorg Þá, er hallda skylldi fyrir hönum í bardaganum, ok hina sterkustu menn valldi hann Þar til ok Þá, er snarpastir vóru. Þá kalladi hann skálld sín til sín, ok bad Þá gánga í skialldborgina. Skulu Þér, segir kóngr, hér vera ok siá Þau tídindi, er hér giörast, ok er ydr Þá eigi segiandi saga til, ef Þér skulut frá segia ok yrkia um sídan. Þar var Þá Þormódr Kolbrúnarskálld, Gissur Gullbrárfóstri, Hofgarda-Refr, ok hinn fiórdi Þorfinnr Munnr. Þá mællti Þormódr til Gissurar: stöndum eigi sva Þraungt, lagsmadr, at eigi nái Sighvatr skálld rúmi sínu, Þá er hann kémr, hann mun vera vilia fyrir kóngi, ok eigi mun kóngi annat líka. Kóngr heyrdi Þetta ok segir: ei Þarf Sighvat at sneida, Þó at hann sé eigi hér, opt hefir hann oss vel fylgt, hann mun nú ok bidia fyrir oss, ok munum vér Þess miök vidÞurfa. Þormódr svarar: vera má Þat, kóngr, at ydr sé bæna

mest Þörf, enn Þunt mundi vera um merkisstaungina, ef allir hirdmenn ydrir væri á sudrveg. Var Þat ok satt, at vér töldum at Því, Þá er engi féck rúm fyrir Sighvati, Þó at mæla ætti vid ydr.

Þá mælltu Þeir sín á milli, sögdu, at Þat væri Þá vel fallit at yrkia áminníngar vísur um Þau tídindi, er Þá mundu brátt at hendi berast. Þá kvad Gissur:

O.H. c. 218.

Skulu ógladir ífa
ord fregni Þau borda
búumst vid Þröng á Þíngi
Þegnsdóttir megi fregna
Þó at sigrrunnar svinnir
segi von Hedins kvonar
verum í ala eli
austr bragníngi traustir

Þá kvad Þorfinnr Munnr:

Rockr at regni miklu
randa gards hins harda
vill vid vísi sniallan
Verdæla lid beriast
verium alvalld örvann
öllum teitann má sveita

fellum þrendr í Þundar
Þess eggia ek nú hreggi.

Þá kvad Þormódr Kolbrúnarskálld:

[1]) Ala Þröng at eli
[2]) örstiklanda miklu
skylldu æi [3]) skelkner hölldar
skálm ölld vex nú fálma
[4]) búumst vid sókn enn slæknir
[5]) seggir skulu ord um fordast
[6]) er at geirÞíngi géngum
[7]) gunnræifir med Oleifi.

[8]) (Vísur Þessar námu menn Þá Þegar, ok hafa verit sídan at minnum hafdar.)

## XLVIII.

## Þormódr kvedr Biarkamál hin fornu.

Þá nátt, er Olafr kóngr lá í safnadinum, ok ádr er frá sagt, vakti hann laung-

1) allar Þraumar. C. ala Þraungr 142. A,
2) aurstiklandi. 142. A. adstikludu. C.
3) skelku. C.
4) braut komunst vér Þó veitum.
5) valtafn frekum rafni.
6) vist eigum Þat (Því 142 vær. C.) voga.
7) viggrudr edr hér liggium. öll.
8) ( ) vantar í öllum.

um, ok bad til guds fyrir sér ok ödru lidi sínu, ok sofnadi lítt, ok rann höfgi á hann í mót deginum. Enn er hann vaknadi, Þá rann dagr upp. Kóngi Þótti helldr snemt at vekia herinn, Þá spurdi hann, hvört Þormódr skálld vekti? Hann var Þar nær, ok spurdi, hvat hann villdi hönum? Kóngr segir: tel Þú os kvædi nockut. Þormódr settist upp, ok kvad sva hátt, at heyrdist um allan herinn. Enn hann kvad Biarkamál hin fornu, enn ádr enn hann tók til, spurdi Þormódr: hví Sighvatr skálld skylldi eigi skémta ok launa gullinhialtann, er Þú kóngr, gaft hönum í iólagiöf í fyrra vetr? Kóngr mællti: veiztu eigi, at Sighvatr er nú eigi hér? engi mun oss nú Þarfari enn hann, er hann bidr fyrir os á sudrvegum. Þormódr svarar: Þá mun Þat nú géra hverr ockarr, sem tilfærr er. Ek mun drygia karlmensku ok skémtan í dag, enn hann spilar fíngrum sínum at Rómi. Þetta er upphaf at kvædinu:

Dagr er upp kominn
dynia hana fiadrar
mál er víkíngum at vaka

oc vinna erfidi
vaki oc vaki
vina höfut
allir hinir ædstu
Adils ok Snia
Harr hinn hardgreypi
Hrólfr sciótandi
ættgódir menn
er ecki flýa
vek ek ydr at vini
né at vifs rúnom
helldr vek ek ydr
~~at bördum~~ hilldarleiki

Þá vaknadi lýdrinn, ok er lokit var kvædinu, Þá Þockudu menn hönum, ok fanst mönnum mikit um, ok Þótti vel tilfundit, ok kölludu húskarla hvöt. Kóngr Þackadi hönum skémtan sína, sídan tók hann gullhríng, ok gaf hönum. Þormódr Þackadi hönum giöfina, ok mællti: gódan eigum vér kónginn, enn vant er at siá, hvörsu lánglífr hann verdr, enn sú er bæn mín, kóngr, at Þér látit ockr hvarki skilia lífs né dauda, Því at ek villda fara til einnar gistíngar ok Þér í kvelld. Þat skal ok vera,

kvad, kóngr, ef vér förum bádir lífs af Stiklastödum. Ecki Þycki mér Þá iafnmikit áliggia, kvad Þormódr, enn hitt er satt, at ek vil ecki lifa eptir Þik, Því at ek hefir rannsakat rád mitt, ok sýnist mér sva, at sídan ek var VII vetrum ellri, hafi sá einn lutr verit mér til hiálpar framleidis, er ek hefir fylgt Þér ok Þínu föruneyti, ok Þyckiunst ek Þat ecki med ódygd gért hafa. Veit ek, at Þú mant eigi hirda at lifa eptir mik, kvad kóngr, enn eigi veit ek, hvört vér erum iafnbúnir til at fara til einnrar gistíngar, edr hversu gamall ertu? edr hversu marga menn hefir Þú drepit í einvígi? Þormódr svarar: ek er nú nockurru meir enn hálf fertugr, enn mér Þyckir von, at ek hafa XIV mönnum at bana ordit. Ecki Þycki mér Þú miök gamall, kvad kóngr, enn Þó mann ek Því heita Þér, at Þú komir til nockrar hvílldar eptir seond Þína, ok munt Þú ecki minna mega vidkoma, enn dægr komi fyrir hvern mann er Þú hefir vegit. Hins beidda ek Þik, herra, at skilia alldri vid ydr. Kóngr svarar: allir manum vér ok saman fara, ef ek má ráda, medan Þér vilit

eigi vid mik skiliast. þá mællti þormódr: Þess vænti ek, herra, hvört sem fridr er verri edr betri, at ek sé nær ydr staddr, medan ek á Þess kost, hvörir sem sigr kunna at hafa.

Sídan kvad þormódr vísu:

[1]) þér mun ek enn unz ödrum
allvalldr náir skálldum
nærr [2]) vettir Þú Þeirra
Þíngdiarfr [3]) um kné hvarfla
[4]) braut komunst vér Þó veitum
[5]) valtafn frekum rafni
[6]) víst eigum Þat voga
[7]) viggrudr edr Þar liggium.

[8]) (Nockrum dögum ádr bardaginn var, taladi kóngr vid þormód ok spurdi: hvert Þat væri satt, at bændur á Íslandi gialldi slægiur húskörlum sínum á haust? þormódr

1) ytr mun ek unz. 142.
2) væntir. 142. A. mér væntir. C.
3) fyrir. 142. C.
4) ríkr vil ek med þér rækir.
5) randarlinz at sinni, 142. A. randalins í vindi. C.
6) stundum ár á andra. 142. C. rönd berum út á andra. A.
7) eybaugs lífa ok deya. öll.
8) ( ) vantar í C.

kvad Þat satt vera. Hvörnveg er Þat? segir kóngr. Þormódr segir, at bóndi féck til einn saud ok skylldu allir hann hafa hans heimamenn. Kóngr mællti: vér skulum ok sva géra: far, Þormódr, ok drep Hrút af Viggium, ok gélld ek ydr hann í slægiur. Þormódr gérdi sva, at hann drap Hrút ok XXX med hönum.

[1]) (Þat hafa menn sagt, at Þormódr Kolbrúnarskálld var Þann dag í kyrtli raudum, er hann bióst til bardaga, ok drap upp blödunum fyrir, enn kyrtillinn var sídr miök á bákit. Einn hirdmadr spurdi: hví hann byggist sva? Þormódr svarar, Því ek ætla mér lengra áframm enn á bak aptr. Hann var girdr sverdi Því, er Olafr kóngr gaf hönum, hann hafdi öxi sína í hendi, enn önga hlíf. Kóngr spurdi Þormód: Því hann byggist eigi til bardaga sem adrir menn, ok hefdi einga hlíf, edr ætlar Þú, at bændur muni eigi kunna at beriast? Þormódr svarar: Þat skulu búkarlar finna í dag, at öxi mín skal mér bædi skiölldr ok brynia. Þat hafa menn at minnum haft ok ágiætum, hversu rösk-

1) ( ) vantar í 142 ok A.

liga þormódr bardist um daginn, Því at hann hió tveim höndum med öxi sinni hinn fyrra bardagann, enn med sverdinu alla Dagsbríd, Því at Þá géck öxin af skaptinu, fellu margir menn fyrir hönum, sva at seint er Þeirra nöfn allra at skrá.)

## XLIX.

## Þeir Dagr komast undan vid rád Þormóds.

[1]) (þorfinnr skálld ok þórdr, bródir hans, urdu sárir miök, so at Þeir urdu óvígir. Nú er Þeir lágu í valnum, siá Þeir liós yfir líki kóngsins. þetta undrudust Þeir miök. þórdr tók til orda ok mællti: hví mun liós Þetta yfir kónginum, eigi munu Þau endemi sönn, at kóngrinn sé heilagr? þorfinnr svarar: líkligt er Þat, at hann sé heilagr, ok eru Þat eigi endemi.

Nú var orrusta hörd, ok féllu margir menn í bardaganum. Enn er Dagr var ofrlidi borinn, Þá mællti hann, at Olafs menn skylldu fara einum flocki burt med hönum.

1) vantar í 142 ok A.

þá var þormódr Kolbrúnarskálld ecki miök sárr, enn óvígr sakir mædi, ok villdi hann Þó standa hiá sveitúngum sínum, eigi var hann Því eigi sárr edr lítt, at hann hefdi sér hlíft meir enn adrir, helldr hitt, at mönnum Þótti annarstadar audvelldra til at sækia enn Þar, sem hann var. Einn madr spurdi þormód: sáttu nockut skiölld minn, er ek kastadi ádan? hvat skal Þér rögum skiölldr? kvad þormódr, géta mundi ek mér slíkan skiölld, ef ek villda, enn eigi giafvin Þann, er ek hefi mist.)

[1]) (Sva er sagt, Þá er lokit var bardaganum, at þormódr géck Þar at, er Dagr ok hans menn höfdu stadar numit eptir bardagann, Því at Þá var eigi víglióst fyrir nætur sakir. Bændur sátu um Þá Dag, at Þeir skylldu eigi burt komast um nóttina, ok ætludu Þegar at Þeim gánga, er lýst var ordit. Dagr mællti: er nockr sá madr í mínu lidi, er rád kunni til Þess at leggia, at vér komumst á brott, sva at bændur eigi engan kost á oss, Því at ek veit, at Þeir munu Þegar at oss leggia, er lýsir, ef vér bídum hér? Engi

1) ( ) vantar í 142 ok A.

madr veitti svör máli hans, ok er þormódr sá, at engi fengust rád af Þeirra hendi, Þá mællti hann: hví munu eigi finnast rád til Þess? segir hann. Dagr spurdi: hver er sá madr, er sva talar um reystiliga? hann svarar: sá heitir þormódr? Dagr mællti: ertu þormódr Kolbrúnarskálld? sá er madr hinn sami, segir hann. Dagr mællti: hvert rád er Þat, er Þú sér til Þess, at vér komumst í brott med lid vort? þormódr svarar: Þér skulut fella mörkina ok géra ellda stóra af [1]) hrísinu, enn færa stofna sem flesta framm at elldinum, ok skulu IV menn vera um hvörn elld, enn Þrír menn skulu gángu um elldana iafnan, enn einn skal kynda hvern elld. enn Þá er Þér hafit sva gért nockra hríd, Þá slöckvit alla senn elldana, ok farit Þá leid ydra, ok géfit hvörki stad í dag né á morgun. Enn bændum mun Þyckia, sem kominn sé at mugr manns, er Þeir siá kvikt allt vid elldana. Enn er morgnar, Þá munu Þeir siá Þetta rád, ok er mér Þá von, at Þeir fari eptir ydr, enn Þó mun Þá sva mikill verda ydvarr misfari, at mik væntir, at

1) barinu. C.

ecki saki til. Dagr mællti: ertu nockut sárr? þormódr svarar: fiærri ferr Þat. Dagr mællti: far Þú Þá austr í SvíÞiód med mér, ok man ek Þá géra vel til Þín, enn Þú átt hér nú einkis góds at bída. þormódr svarar: ecki mun Þess audit verda, at ek Þióni ödrum kóngi, er Olafr kóngr er fallinn. Snýr þormódr Þá í brott, enn Þeir Dagr höfdu Þetta rád, ok komust vid Þat undan.)

þormódi fékst mikils, er hann var lítt sárr, ok harmadi Þat miök, ok Þóttist vita, at hann mundi eigi verdr vera fyrir illrá gérda sinna sakir at falla med kóngi. Nú bidr hann Þá Olaf kóng med gódfýsi, at hann siái á med hönum. Hann mælltist Þá vid einsaman ok taladi: hvört muntu nú eigi, hinn heilagi Olafr kóngr, ætla at enda vid mik, Þat sem Þú hétst mér, at Þú mundir mik eigi fyrir láta, ef Þín rád mættu standa. Ok Því næst heyrir hann, at strengr gellr, ok er skotit öru, ok kémr hún undir vinstri hönd þormódi, ok Þar á hol. Verdr hann Þessu sári feginn harla miök, ok mællti: Þat hygg ek, at Þessi madr hafi bestu heilli boga uppdregit, enda veit ek, at Þeim skall nú,

er skylldi. [1]) (Géngr þormódr Þángat at, sem var lík kóngsins, ok settist Þar nidr, ok brýtr skepti af örinni. þormódr heyrir mann kalla í valnum af lidi bænda: hvat er Þeirra manna í val, er tala megi késkimál edr gamanyrdi? var ek alldri Þar staddr, er allir menn væri iafn eliunarlausir, veit ek, at margir menn munu mega mæla sér gaman, Þó at sárir sé. þá svarar hönum madr: miök illa er ydr farit, lágut á illu rádi í dag, enn gáit eigi nú ydvar, er liggit á heliar Þremi. Hverr svarar mér? segir hann. Hemíng máttu mik kalla, enn hverr ertu? Hiarrandi et mitt nafn, ok man ek, at ek átti Þann son, er Hemíngr hét, ok fór hann til Iórsala, unna ek hönum mikit. Enn nú mun engi sínum födur ófegnari enn ek, kvad Hemíngr, hafit Þér breytt of illa vid kóng. .. Eigi höfum vér gódu rádi fylgt, kvad Hiarrandi, enn Þó villda ek, at Þú færir híngat ok sættunst vid. Hemíngr mællti: eigi verd ek í blódi ydru bænda, helldr far Þú híngat ok vit, ef Þú nædir at deya í blódi kóngsmanna, ok villdi

1) ( ) vanter í öll.

Þér Þat nockur skírsla verda. Hiarrandi segir: vita villda ek, hvat Þér væri at meini, ek Þyekiunst vita gérr, hvat manna Þú mundir verda. Hemíngr svarar: á kniám stend ek í valpum, Því at sva er valrinn fallinn at mér Þyckt, at ek má ecki falla nidr, enn idr eru í grasi sum, edr hvat er Þér at meini, fadir? Þat vissi Þormódr, at Hiarrandi skreid til Hemíngs, ok dó Þat sídan. Enn Þormódi óhægdist miök sárit, sem von var.)

Þormódr gengr Þá heim til húsanna ok at einni bygghlödu, er menn Olafs kóngs höfdu verit innfærdir, Þeir er sárir vóru. [1]) (Þormódr hafdi bert sverd í hendi, ok er hann géek inn, Þá kom madr í mót hönum. Þormódr spurdi hann at nafni, enn hann kvazt Kimbi heita. Þormódr spurdi: vartu í bardaganum? var ek, segir hann, med bændum, er betr var. Ertu noekut sárr? segir Þormódr. Lítt, segir Kimbi, edr hvört vartu noekut í bardaganum? Þormódr svarar: var ek med Þeim, er betr höfdu. Kimbi sá, at Þormódr hafdi gullhríng á

1) vantar í C.

hendi. Hann mællti: Þú munt vera kóngsmadr, fá Þú mér gullhrínginn, enn ek mun leyna Þér, ella munu bændur launa Þér óspekt, ef Þú verdr á vegi Þeirra, edr ertu nockut sárr? Þormódr svarar: eigi er ek sárr, sva at lækníngar Þurfi, enda hafdu hrínginn, ef Þú vill. Látit hefi ek nú meira, Því at mér tekr nú at Þyckia minna gaman at gulli enn var. Kimbi rétti framm höndina, ok villdi taka hrínginn. Þormódr [1]) sveifladi til sverdinu, ok hió af Kimba höndina, ok kvad hann ei med Þeirri múndi stela sídan. Kimbi Þoldi illa. Þormódr kvad hann reyna skylldi, hversu sárin væru at Þola. Sídan fór Kimbi á brott, enn Þormódr stód eptir, Þá hleypr madr innan úr hlödunni ok sækir vidarfáng.)

Kona ein vermdi [2]) vatn í katli til Þess at fægia sár manna [3]). Þormódr géck at einum vandbálk, ok studdist Þar vid, Þá mællti konan vid Þormód: hvat manna ertu? hvört

1) rak saxit í gégnum hann. 142. A.

2) grös. C.

3) hafdi uppi grautarkétil ok stappadi Þar í lauka. 142.A.

ertu Kóngsmadr, edr ertu af bónda lidi? þormódr svarar ok kvad vísu:

[1]) Á sér at vér vorum
vígreifir med Oleifi
sár féck [2]) helldr at hvoru
hvít brúdr [3]) frid lítinn;
skín á skilldi mínum,
skálld féck hríd til kallda
nær hafa æski askar
[4]) eyrindann mik gérvan.

Konan mællti: hví lætr Þú eigi binda sár Þín, ef Þú ert miök sárr? þormódr svarar: Þau ein hefi ek sár, at ecki Þarf at binda. Konan mællti: Þú munt Þat kunna at segia mér, er vér höfum lengi um rædt í kvelld, hverr best hefir frammgengit í bardaganum edr minst hlíft sér? þormódr kvad vísu:

Ört [5]) var Olafs hiarta
ód fram kóngr í blódi
rekin bitu stál á Stikla
stödum [6]) kvaddi lid Bödvar

1) þat sér. C.
2) ek helldr enn. 142. A.
3) enn. 142. A i C.
4) örvendan. C.
5) hefir. 142. A.
6) kvadist. 142.

[1]) el Þolla leit ek alla
[2]) almvedrs nema grams siálfan
reyndr var [3]) um flest í fastri
fleyndrífu sér hlífa.

Bóndi einn [4]) kom Þá í kornhlöduna, er Þau töludu Þetta. Hann fór at forvitnast, hvat títt væri um kóngsmennina. Þar vóru margir menn miök sárir, ok lét hátt í holsárum manna edr höfut-sárum, sem náttura er til stórsára. Bóndi nam stadar í hlödunni, ok hlýddist Þadan um, ok er hann heyrdi, at hátt lét í holsárum manna, Þá mællti hann: Þat er von, at kónginum hafi lítt gengit bardaginn vid bændur, sva Þróttlaust lid sem Þetta er, at hönum hefir fylgt, Því at mér Þyckir sva mega at kveda, at Þeir Þoli eigi óæpandi sár sín, ok eru Þetta fýlur, enn ecki [5]) dugandi menn. Þormódr svarar: sýnist Þér sva, félagi, sem Þeir sé ei Þróttmiklir, er hér eru inni? Iá, segir

1) fell Þolla. C.
2) ialfauds. 142.
3) sá er Kimbi hét. 142. A.
4) flestr. 142. A.
5) dándumenn. C.

hann, sva synist mér, sem hér sé flestir menn ofÞreklausastir saman komnir. Þormódr segir: vera kann Þat, at nockur sé sá hér inni, at eigi sé Þrekmikill, ef til er reynt, ok eigi mun Þér mitt sár mikit Þyekia, Þótt Þú hyggir at Því. Bóndi svarar: ek ætla, Þá væri betr, at Þú hefdir bædi mörg ok stór. Snýr bóndi Þá utar eptir hlödunni, ok ætlar út at gánga. Í Því höggr Þormódr eptir hönum, Þat högg kom á bakit, ok hió af hönum [1]) báda Þióhnappana. Styn Þú ecki nú, kvad Þormódr. Bóndi kvad vid hátt med miklum skræk, ok Þreif til Þióhnappanna bádum höndum. Þormódr mællti: Þat vissa ek, at vera mundi hér inni noekurr madr, sá er eigi mundi Þrottigr reynast, er Þér illa farit, at Þú finnr at Þreki annara manna, Þar er Þú ert Þróttlaus siálfr, eru hér margir menn miök sárir, ok velar engi Þeirra, enn Þú bræktir sem geit blæsma, ok veinar sem mer, Þó at Þú hafir eina vödva skeinu litla.

1) höndina. 142. A.

L.

## Daudi Þormóds.

[1]) (Eptir Þenna atburd kom í hlöduna kona med miólkrskiólur tvær, sú er færa ætladi dryck sárum mönnum. Hún mællti vid þormód: hverr er Þessi madr, er hér stendr vid bálkinn? hann svarar: þormódr heiti ek. Hún mællti: hefir Þú nockut verit í bardaganum í dag? þormódr svarar: Þat villda ek ætla, at Þat skylldi nockrir bændur eiga at segia konum sínum í kvelld, at þormódr Kolbrúnarskálld hafi komit til bardagans í dag, enn Þó vilnunst ek hins, at nockrir megi eigi frá segia.)

[2]) (Konan mællti: hverir gengu best framm med kónginum? þormódr kvad vísu:

Haralldr var bitr at beriast
baudreifr med Oleifi
Þar géck hardra hiörfa
Hríngr ok Dagr at Þíngi
rédu Þeir [3]) und raudar
randir prúdt at standa

1) vantar í öllum.
2) vantar í C.
3) um. 142. A.

féck benÞidrs blacki
biór dáglingar fiórir.)

Konan mællti: Þú munt vera sárr miök, edr villtu drecka miólk, Þat er sarum mönnum gott til styrktar? Þormódr svarar: eigi Þarf ek miólk at drecka, Því at ek er nú sva fullr, sem ek hafi nýsopit skyr út á Íslandi, enn ek er Þó lítt sárr. Konan mællti: hví ertu sva litlaus, ef Þú ert sva lítt sárr? Þormódr kvad Þá vísu:

Undrast [1]) öglis landa
æik hví vér sém bleikir
fárr verdr fagr [2]) med sárum
fann ek örfa drif, svanni!
mik fló málmr hinn döckvi
megni keyrdr í gégnum
hvast beit hiartat næsta
hættligt iárn er ek [3]) ætla.

Konan mællti: Þat Þóttunst ek siá á Þér, at Þú mundir miök sárr vera, er Þú vart sva litlaus, ok láttu binda sár Þín sem adrir

1) auglitslenda. C.
2) af. ö l l.
3) vætti. ö l l.

menn [1]) (ok lát mik siá. Sídan settist hann nidr, ok kastadi klædum af sér, enn er læknir sá sár hans, Þat er hann hafdi á sídunni, hún kéndi Þess, at Þar stod ör í, enn Þat vissi hún eigi víst, hvört iárnit höfdi snúit. Hún hafdi Þá graut í steinkétli af lauk ok önnur grös, ok vellt Þat saman, ok gaf at eta Þeim hinum sárum mönnum, ok reyndi sva, hvört Þeir höfdu holsár, Því at Þá kéndi af laukinum úr sarinu. Hún bar Þat at Þormódi, ok bad hann eta. Hann segir: ber í brott, ecki hefi ek [2]) grassótt. Sídan tók hún spennitaung, ok villdi draga út iárnit, enn Þat var fast, ok géck hvörgi, stód ok lítit út, Því at sárit var sollit. Þá mællti Þormódr: skér Þú til iárnsins, sva at vel megi med taunginni ná, fá mér sídan, ok lát mig kippa. Hún gérdi sva. Þá tók Þormódr gullhríng af hendi sér, ok gaf lækninum, bad hana slíkt af géra, sem hún villdi, enn gódr er nautrinn, segir hann, Olafr kóngr gaf mér hríng Þenna í morgin. Sídan tók Þormódr taungina, ok kipti á burt örinni.

1) vantar i C.
2) grautarsótt. 142. A.

Enn á örinni vóru krókar, ok lágu Þar á tógar af hiartanu, sumar raudar, enn sumar hvítar, gular ok grænar, ok er hann sá Þat, mællti hann: vel hefir kóngrinn alit oss [1]), hvítt er Þessum karli um hiartarætur.) Þá kvad Þormódr vísu:

[2]) Emkat ek raudr né riódum
[3]) rædr grönn skögul manni
[4]) haukasetrs hin hvíta
[5]) hugfar um mik sáran
[6]) hitt velldr mér at melldrar
[7]) mordveniandi feniu
[8]) diúpt oc Danskra vopna
Dagshrídar spor . . . . . .

Ok er hann hafdi Þetta kvedit, Þá andadist hann standandi vid vandbálkinn, ok féll eigi fyrr til iardar enn hann var daudr.

1) í vetr. 142.
2) einkada ek. C.
3) rædir grönn kona manni. C.
4) iárn stendr fast hit forna. C.
5) fenstyga mér benia. C.
6) Þó velldr mér enn meira. C.
7) marglodar nú troda. C.
8) diúp. 142. drupnis dyrra vopna. C.

Haralldr kóngr Sigurdarson fylldi vísuna, er þormódr hafdi ort: "Dagshridar spor svída," segir hann, sva mundi skálldit vilia kvedit hafa.

Nú lýkr hér æfi þormóds med þessum atburdum, sem nú vóru sagdir.

---

